# HVERT STEFNIR?

Erindi flutt í Winnipeg, 4. Marz 1916
og síðar á ýmsum stöðum.

EFTIR

FRIÐRIK J. BERGMANN.

Arnljotur B. Olson

WINNIPEG.
ÓLAFUR S. THORGEIRSSON GAF ÚT
1916.



## Arnljotur B. Olson

1.

Lognmók enn meira hefir verið yfir andlegu lífi voru Vestur-Íslendinga nú um næst undanfarinn tíma en endrarnær, þó oftast sé þar ekki um auðugan garð að gresja. Um leið og stríðið skall á, sem nú hefir staðið yfir í tuttugu mánuði, var eins og heimurinn yrði höggdofa.

Það er engin furða, þó þetta nái til vor, þar sem vér eigum heima í landi, sem beint er við stríðið riðið, og sent hefir, og heldur áfram að senda, vöskustu drengi sína í stórhópum, með sívaxanda áhuga, út á sjálfan orustuvöllinn. Vér verðum jafnvel að sjá á bak ungum mönnum og efnilegum svo hundruðum skiftir úr vorum fámenna hópi. Og enginn veit, hve lengi þarf á þessu að halda, eða hve nær endirinn kemur. Á þetta horfir heimurinn þrumulostinn. Mannfélögin eru að bera fram fórn Abrahams. Og fjöldi sonanna hverfur annað

hvort aldrei heim aftur til föðurhúsanna, eða verður að lifa við örkuml alla æfi. Það er engin furða, þó heimurinn standi á öndinni út af því, hvað uppi muni verða á tening, og andlega lífið snúist alt utan um voðann, sem er á ferðum.

Samt eru menn teknir að þreytast á að hugsa um þetta eitt. Mannsandinn þolir naumast svo einskorðað efni til lengdar. Margir eru teknir að hugleiða, hvernig andlega lífið muni rísa úr roti — með hvaða ummerkjum það muni verða, hvernig það muni mótast af þeim ógurlega hildarleik, sem nú er háður. Lendir þá út í getgátur, eins og oft vill verða, og spádómsandinn ávalt gefinn mönnunum af næsta skornum skamti. Eru líkur til að áhrifin verði feikilega mikil, — miklu meiri og víðtækari ef til vill en nokkur gerir sér í hugarlund.

Áhrifin hljóta að verða stórkostleg á þau tvö áhugamál mannanna, sem flestir láta sig mestu varða. En það eru stjórnmál og trúmál. Þar næst koma mannfélagsmálin til greina, þar sem bæði stjórnmál og siðferðismál fléttast saman. Líkur eru til að stríðið, sem nú stendur yfir, muni hafa áhrif geysimikil á allan hugsunarhátt tuttugustu aldar á öllum þessum sviðum. Svo hefir ávalt verið um allar styrjaldir og svo hlýtur það að verða um þessa, sem stórfenglegri er öllum, er mannkynssagan kann frá að segja. Styrjaldirnar hreinsa loftið og kippa skýlunni frá augum manna á margvíslegan hátt. Þær kenna mönnum oft að

koma auga á hinn sanna kjarna hlutanna og greina óverulegt frá verulegu.

Í sambandi við trúarbrögðin hafa menn veitt því eftirtekt, að á orustuvellinum, þar sem lífshættan hvert augnablik vofir yfir, hverfur alt, er trúflokkana skilur, úr huga hermannanna. Þá þegar svo afar-mikið er í húfi, leggja þeir allir áherzluna á hið sameiginlega í trúarbrögðunum. Alt annað verður þeim ónýtt. Bendir það ekki til þess, að sú bylting kunni að koma fram í huga kristinna þjóða með fram fyrir áhrif þessarar styrjaldar, að alt hið marga og mikla, sem skilur kristinn lýð og sker hann í sundur í ótal deildir í löndunum, megi og eigi hér eftir að hverfa? En hið sameiginlega í trúarbrögðunum beri hér eftir að leggja alla áherzluna á? Ef til vill gæti þá þessi harmsögu-atburður orðið til þess að frelsa sál trúarbragðanna, og væri þá ekki til einskis barist. Lúterskir menn og katólskir standa hlið við hlið í þýzka hernum og leggja líf og örlög sama himnaföðurnum í hönd. Særðir hugga þar hver annan í sjúkrahælunum með huggunargreinum trúarinnar og veita þeirri huggun viðtöku, sem herprestarnir geta veitt, án tillits til kirkjudeildanna. Á orustuvellinum kemur ekki annað en hið sameiginlega til greina: Traustið til himnaföðurins og vonin um framhald lífsins eftir dauðann. Hver veit nema þessi ægilega styrjöld kunni að láta þá blessan af sér leiða, að trúardeildirnar hristi fjötrana af sér og láti nær

því þokast, að klofningarnir mörgu renni saman, og kristnin verði ein heild, lútandi sama lávarði?

Enda hefir guðfræði nútímans haft í för með sér sterkan straum til sameiningar. Gömlu ágreiningsatriðin eru gleymd eða fallin úr gildi. Hví skyldi þá eigi kristnin öll aftur verða ein heild eins og hirðirinn er einn, samkvæmt hinni upphaflegu hugsjón? Óumræðilegur ávinningur væri það. Og eitt dásamlegasta máttarverk mannkynssögunnar, ef þessi óskaplegi ófriður léti svo blessunarríkan frið af sér leiða.

2.

En ég er nú ef til vill kominn út á hálan ís. Bæði er eg líklega farinn að tala um of alvarleg efni, til þess tilheyrendum mínum líki, og tekinn að brjóta gegn banni, sem nýlega hefir verið látið út ganga frá allra hæstu stöðum, — bann gegn því að tala um trúmál, svo að deilum geti valdið eða ágreiningur risið út af. Og banni þessu fylgdi ein hin stærsta ógnan, sem eg man til að komið hafi verið fram með nokkuru sinni á meðal vor.

Eins og kunnugt er hefir forseti kirkjufélagsins nýlega fundið sér skylt að koma fram með bann þetta í greinarkorni dálitlu með fyrirsögn: *Hvert stefnir?* Og ógnanin sem hann lætur fylgja er á þessa leið:

*Alþýða myndi í andlegum skilningi dæma hvern mann til dauða, sem tilraun gerði til þess á ný að vekja illdeilur út af trúarskoðunum.* (Sam. jan. 1916, XXX, 11, bls. 321.

Það hefir víst mjög sjaldan við borið í sögu kristninnar, að nokkurir hafi reynt að koma af stað *illdeilum* í trúmálum. Þeir sem hafið hafa ágreinings-umræður um þau efni, munu oftast hafa gert það í góðum tilgangi. Svo var það um deilur kirkjufeðranna í fyrstu kristni. Svo var það um Lúter, þegar hann sló upp deilugreinunum níutíu og fimm á hallarkirkjudyrnar í Wittenbergi. Það er ekki vel gert og naumast samboðið manni, sem teljast vill kirkjulegur leiðtogi, að ætla nokkurum kristnum manni svo ilt, að hann hefji máls á nokkuru ágreiningsefni, einungis í þeim ókristilega tilgangi að koma illdeilum af stað.

Það er kristninni til hróss, að svo aum og ill hefir hvötin naumast nokkuru sinni verið. Miklu fremur hefir það verið sannleiksástin, er hrundið hefir deilunum af stað. Sannleiksástin, sem liggur til grundvallar öllu andlegu lífi mannanna og heldur því við lýði. Hitt má til sanns vegar færa, að stundum hafa umræður um trúmál lent í illdeilum. Eitthvað ilt verður öllu góðu samferða, eins og myrkrið ljósinu. Þrátt fyrir það heldur hið góða áfram og hlýtur að gera. Hið illa, sem slæst í förina, hverfur eins og skuggi og verður að engu. Aldrei væri neinu ágreiningsefni hróflað, ef sá sem það gerir, ætlaði sér að vera

þess fullvís, að ekki gæti lent í illdeilum út af því með einhverjum. Forsetinn vekur máls á ýmsum slíkum ágreiningsefnum í ritgerð sinni, er menn oft hafa lent í illdeilum út af og geta enn. Ætlar hann þá að vekja illdeilur? Fjarri sé það mér að ætla honum slíkt.

En það kennir nokkurrar ógætni í þessu banni forsetans. Sjálfur minnist hann á trúmál í flestu, sem eftir hann sést, einnig í ritgerð þessari. Hvað eftir annað gerir hann það á þann hátt, að mikill fjöldi manna hlýtur að finna sig stórmeiddan af. Þegar einhverjum finst sannleikanum hnekt og farið með blekkingar, finst þeim um leið sjálfum þeim misboðið og því, sem þeir meta mest af öllu. Þeir fá þá ekki orða bundist, enda er þá heilög skylda hvers manns að tala. Svo ramt kveður að þessu í áminstri ritgerð, að jafnvel samverkamenn og félagsbræður hafa fundið til, eins og raun hefir á orðið. Þessar hugleiðingar forsetans um *hvert stefnir* eru því eins vel til þess fallnar að koma deilum af stað, sem ef til vill gæti orðið illdeilur, eins og nokkuð annað, er sagt hefir verið. Fyrir því sagði eg, að ógnanin um dauðadóm alþýðu hefði verið nokkuð ógætileg. Svo framarlega eigin ummæli hans verði til þess að koma deilum af stað, er hann sjálfur orðinn sekur. Hann er þá sjálfur fallinn inn undir þenna stranga dóm alþýðu. En sú alþýða, sem hann talar um, hlýtur að vera alþýða kirkjufélagsins. Í nafni annarar alþýðu getur hann ekki talað.

Hingað til hefir kirkjufélagið látið sitja við kirkjuþings-yfirlýsingar, "stórbrotamönnum" til refsingar. Nú er það eigi lengur nóg, eftir því sem ummæli forsetans benda til. Nú má ekki minna gagn gera en reglulegur dauðadómur,— andlegur vitaskuld, hvað sem það annars kann að merkja, — en dauðadómur samt.

Mikil ógætni væri það, ef forsetinn með þessum ummælum væri að kalla slíkan dóm *yfir sjálfan sig!*

Þegar eg nú gerist svo djarfur að hefja eindregin mótmæli gegn flestum ummælum forsetans í greinarkorni þessu, geri eg það alls ekki til að vekja deilur — sízt af öllu illdeilur. Eg kem fram með andmæli þessi, af því ég er beint til þess knúður af forsetanum sjálfum. Eg væri ekki annað en auvirðilegur heigull, ef eg þegði. Þeim einum er um að kenna, sem fram hefir komið með þessar fáránlegu fullyrðingar. Ábyrgðin hvílir algerlega á honum. Eg læt hvorki hann né nokkurn annan ógna mér til að þegja.

Á hinn bóginn skal eg taka fram, að það er langt frá mér með fyrirlestri þessum að vera að leggja nokkura lykkju á leið mína til að elda grátt silfur við forsetann að ástæðulausu. Eg hefði þagað, ef hann ekki hefði talað. Við hann á eg alls ekkert útistandandi og ber alls enga óvild til hans í huga mér. Honum er sumt vel gefið og það þykist eg kunna að meta eins og hver ann-

ar. En oft furða eg mig á, og tel víst að þið gerið líka, hve það sem hann lætur *Sameininguna* bera fram úr hugskoti sínu virðist oft vera ofur-vanhugsað og meiniblandið. Að eins vegna þess, að eg er nú að svara honum, neyðist eg til að nefna hann oftar í erindi þessu en eg annars hefði gert, og vonast eg eftir, að það verði afsakað.

3.

Eitt af ummælum þessum er svo:

*Er það raunar á allra vitorði, að deilan út af nýju guðfræðinni er hætt. Sú sérstaka bóla er sprungin í kirkjunni alment, hvað sem nú kemur næst.*

Vitaskuld væri ný guðfræði dauð, ef hún þegði við þessum glappyrðum og andmælti þeim eigi. En höfundinum verður naumast kápan úr því klæðinu. Það er furðuleg skammsýni hafi hann gert sér í hugarlund, að við þeim yrði þagað, þó flestum kunni nú að standa hér um bil á sama, hver lokleysa kann að standa í *Sameiningunni*. Þetta er blekkingartilraun ein við fáfróða lesendur hennar. Þeir, sem betur vita — og þeir hljóta að vera margir — láta sig ekki blekkja, en fá naumast meiri lotningu fyrir sannleiksást þess málgagns eftir en áður og gamallar guðfræði yfirleitt.

Svo langar leiðir eru frá því, að nokkur dauðamörk sé með guðfræði nútímans, að eng-

in önnur guðfræði fær enn nokkurt meðhald í huga nútíðarbarnanna. Það hefir verið á það bent sem eitt markverðasta tákn tímanna, að biblíuskýringin þýzka, sem meira hefir bylt við skilningi manna á ritningunni, bæði gamla og nýja testamentinu, en flest annað, hefir verið fullgerð og síðustu heftin af gamla testamentisskýringunni komið út nú meðan stríðið mikla stendur sem hæst.[1] Eg hefi áður á það bent oftar en einu sinni, að allar guðfræðibækur, sem út koma í enskum heimi nú eftir aldamótin, og nokkurt vísindalegt gildi hafa, eru allar ritaðar frá ný guðfræðilegu sjónarmiði.[2] Safnverkin miklu, sem ná yfir allar greinar guðfræðinnar, halda áfram út að koma og áhuginn fyrir efni þeirra fer fremur vaxandi en þverrandi. Enda hafa þau öll síðustu þekkingu nútímans til brunns að bera hvert á sínu sviði. Safnverk þessi verða sífelt fleiri og fleiri og sýnir það, hve lesendur eru sólgnir í að tileinka sér sjónarmið nýrrar guðfræði. Eitt tók út að koma beggja megin hafsins 1910, er nefnist *Theological Studies.* Af því eru á þessum stutta tíma útkomin eigi færri en 20 bindi. Í safnverkum þessum leggja helztu guðfræðingar í enskum heimi fram niðurstöðuna, sem rannsóknin hefir komist að fram að þessum tíma, og ástæðurnar fyrir henni.

---

1) *Schriften* d. a. und n. Testaments. Sbr. American Journal of Theology, Jan. 1916.

2) Viðreisnarvon kirkjunnar, Rvík 1911, bls. 32—34.

Einn þessara höfunda[1] var Sameiningin í fáfræði sinni oftar en einu sinni að taka sér til inntektar. En þá vildi svo óheppilega til að hann reit eina bókina í síðast talda safninu um: *Opinberan og innblástur*[2] og komst svo að orði um þá innblásturstegund, sem Sameiningin hefir barist fyrir hnúum og hnefum, að það væri sama sem að fremja sjálfsmorð í kristilegum og guðfræðilegum skilningi að fylgja henni fyrir hvern þann, er verja vildi sannindi trúarinnar. Og það er ekki lengra síðan en árið 1910. Á öllum guðfræðiskólum landsins eru bækur þessar, sem eg hefi nefnt, notaðar sem kenslubækur, ekki einungis vestan megin Atlanzhafs, heldur líka hvar sem ensk tunga er töluð, sökum þess að það eru lang-beztu kenslubækurnar, sem unt er að fá. Hér í Winnipeg, rétt undir handarjaðri forsetans, eru þær notaðar: við St. John's College, við Manitoba College, við Wesley College, meira og minna eftir ástæðum. Eftir þeim flytja kennararnir fyrirlestra sína, í þeim eru prófin tekin, upp á þá þekkingu, sem þær hafa til brunns að bera, verða menn prestar. Ef forsetinn fær að ráða, mega þær sjálfsagt aldrei koma inn í Jóns Bjarnasonar akademí. En stórlega furðar mig, ef langir tímar líða og það á nokkura framtíð fyrir hendi, og einhver þar fer ekki að hnýsast í þær, hvað sem forsetinn segir.

---

1) Dr. James Orr, prófessor í Glasgow, nú látinn.
2) Revelation and Inspiration, 1910.

Gæti hann komið í veg fyrir það, væri hann stærri páfi en fyrirmyndin sjálf í helgum Rómi.

Þrátt fyrir alt þetta og ótal margt annað, sem til mætti tína, er Sameiningin látin flytja lesendum sínum þá falsfregn af munni ritstjórans sjálfs, að ný guðfræði sé dauð, þótt verið sé að flytja hana, jafnvel frá prédikunarstólunum, bæði enskum og íslenzkum, hvern sunnudag alt í kring um hann. En hann heldur það ekki. Hann veit miklu betur. Hann vill að eins koma öðrum til að halda þetta, — elskulegum vinum sínum, lesendum Sameiningarinnar. En er það ekki að fara með blekkingar? Er það vel gert að segja sálunum, sem honum er trúað fyrir, svona herfilega ósatt?

4.

Hugurinn hvarflar til Noregs.

Þar býr þjóð í landi, sem er oss Íslendingum skyldari og fyrir margra hluta sakir líkari en nokkur þjóð önnur. Þar í landi hafa verið deilur all-miklar og umbrot út af nýrri guðfræði. Flestir kennaranna við háskólann voru ný-guðfræðingar, en einn þeirra, prófessor *Odland*, gerðist foringi gömlu stefnunnar. Hann sagði kennarastöðu sinni af sér við háskólann, gekst fyrir frjálsum samskotum um land alt meðal þeirra, er fylgja vildu hinu

gamla, til þess að stofna annan háskóla í höfuðborginni, þar sem kend er gömul guðfræði, þótt mikið af henni sé þess eðlis, að kirkjufélagið myndi fyrirdæma sem ný-tízku guðfræði. Þetta var mikið þrekvirki og stjórnin neyddist til að viðurkenna þenna nýja háskóla, þótt henni væri það sárnauðugt. Hann nefnist: Safnaðaháskóli — *Menighedsfakultet.*

Einn kennaranna við þenna safnaðaháskóla heitir prófessor *Taranger.* Hann ritar grein í *Kristeligt Ukeblad* 1. jan. 1916, þar sem hann er að áminna fylgismenn gömlu stefnunnar, einkum kennarana við þenna svo-kallaða háskóla, um að kynna sér betur vísindalega guðfræði en hingað til hefir átt sér stað. Kennararnir í guðfræði við ríkisháskólann í Kristjaníu eru einmitt nú um þessar mundir í óða önn með að út gefa kenslubækur, stórar og vandaðar, hver í sinni grein guðfræðinnar. Prófessor *Michelet* gefur út kenslubók í tveim bindum um trúarsögu Ísraels.[1] og kom fyrra bindið út fyrir jólin. Prófessor *Andreas Brandrud* gefur út kirkjusögu.[2] Prófessor *Johannes Ording* trúfræði.[3] Og prófessor *Lyder Brun* gefur út bók um: *Fagnaðarerindi Jesú, kenning hans í sögulegu samhengi.*[4] Og alls þessa minnast blöðin með fögnuði um síðastliðin jól.

1) Fra Mose til Profeterne I. 1915.

2) Den Kristne kirkes historie. Et grundrids 1915.

3) Den kristelige tro, 1914—1915.

4) Jesu evangelium. En historisk fremstilling av Jesu forkyndelse. (Á að verða 640 bls.).

Eg skil ekki að nokkurum þar í landi finnist, að ný guðfræði sé dauð. Þessum prófessor Taranger finst það að minsta kosti ekki. Hann áminnir um, að kennarar safnaðaháskólans þurfi nú að taka rögg á sig og gera slíkt hið sama, ef gömul guðfræði eigi ekki hjá þeim að falla í kaldakol. Hann kvartar sárt undan vinstrimanna stjórninni þar í landi. Hún sé nú í þann veginn að innleiða kenslubók í trúfræði eftir Inga nokkurn Sörensen við hærri skólana og brátt muni hún þá einnig innleidd í alþýðuskólana. "Þá verður vorum gamla lúterska barnalærdómi bráðum líka sópað burt", segir hann.[1]

Annað sem hann tekur sér ákaflega nærri er það, að prestur einn merkur, *Karl Konow*, hefir fengið embættisútnefning af stjórninni alveg nýlega. Konow þessi hefir í hópi prestanna norsku verið einn helzti forvígismaður nýrrar guðfræði. Voru gerðar tilraunir til að svifta hann prestskap, en hepnuðust ekki. Lengi var honum neitað um nokkurt æðra embætti. Nú hefir stjórnin bætt úr skák og opnað honum leiðina upp á við, eins og hverjum öðrum guðfræðingi. Um það farast þessum prófessor Taranger svo orð: "Með þessu er þá Konow loks leystur úr banni og leiðin liggur honum opin upp í hæstu embætti kirkju vorrar. Eftir fáein ár, þegar er biskupsdæmi Björgvinjar hefir fengið nægilega sáning frjáls-

1) Norsk Kirkeblad 14. jan. 1916, bls, 26.

lyndra presta, getum við lifað að sjá hann skipa biskupsstól Björgvinjar. Og því ekki það? Hann er þó að minsta kosti lundfastur maður, sem í öngum og andstreymi hefir verið sannfæringu sinni trúr. Það er meira en unt er að segja um marga af andstæðingum hans. Yfirleitt megum við vera undir það búnir, að nútíma-guðfræðin verði um næstu 50 ár aðalstefnan í norsku kirkjunni. Kennararnir í guðfræði, sem nú eru, eru góð trygging þess. Þeir eru enn þá ungir menn, og að tíu til tuttugu árum liðnum taka lærisveinar þeirra við embættum þeirra og halda starfseminni áfram næstu 25 ár''.[1]

Svona lízt honum á blikuna!

Svona ólíkt talar hann, gamal-guðfræðingurinn í Kristjaníu, því sem gamal-guðfræðingnum í Winnipeg hefir fundist rétt að láta sér um munn fara í sama mánuðinum. Norðmanninum finst ekki ný guðfræði 'brostin bóla'. Við óskum sjálfsagt öll forsetanum langra lífdaga, helzt svo langra, að hann verði ný-guðfræðingur á endanum. Því engum vafa getur það verið undirorpið, að nútíma-guðfræðin lifir miklu lengur en hann. Alt sem er á framsóknarleið lifir. En alt, sem numið hefir staðar og horfir um öxl sér, verður að saltstólpa eins og aumingja Mrs. Lot heitin.

2) S. st.

5.

Þessi safnaðaprestaskóli Norðmanna, hefir annars orðið fyrir ýmsum skakkaföllum í síðustu tíð. Professor *Odland*, sem áður var nefndur, hefir nýlega sagt upp kennaraembætti sínu þar og hefir sú uppsögn hans vakið almenna undran og eftirtekt. Sú stjórnarráðstöfun er nú gildandi þar í landi, að konum er veittur réttur eða leyfi með sérstökum skilyrðum til að tala í kirkjum landsins. Ákvæði þetta brýtur algerlega bág við gamla guðfræði og skilning hennar á orðum Páls postula, þegar þau eru tekin bókstaflega og álitin gildandi um aldur og æfi, af því þau sé töluð af guði sjálfum. Odland prófessor lét sér því finnast, að hann gæti eigi samvizku sinnar vegna verið guðfræði-kennari, eftir að slík óhæfa næði fram að ganga, að jafnvel konur hefði leyfi til að tala í kirkjum. Það fanst honum viðurstygð eyðingarinnar, standandi á helgum stað. Segir hann því tafarlaust af sér embætti sínu. Virðist það hafa komið öllum á óvart.

Ekki mun það hafa komið síður á óvart, að til eftirmanns prófessor Odlands var kallaður maður, sem verið hefir docent við ríkisháskólann í Noregi síðan 1906, *dr. Olaf Moe*, sem vitaskuld er ný-guðfræðingur eins og allir þar, en fremur íhaldssamur. Fréttaritari *Kristelig Dagblads*, sem út kemur í Danmörku, átti tal um þenna fyrirhugaða kennara við

prófessor Odland. Fórust prófessornum þá svo orð um þenna væntanlega eftirmann sinn: "Frá vísindalegu sjónarmiði er Moe vel hæfur maður. Hann er docent við háskólann og dr. í guðfræði. En eins og eg hefi áður látið í ljós við Kristelig Dagblad, álít eg hann ekki rétt-trúaðan lúterskan guðfræðing. Eftir minni hyggju stendur hann mitt á milli, en það átti að vera ætlunarverk safnaðaprestaskólans að halda við lýði ómengaði lúterskri guðfræði". — "Væri óhugsanda" spurði fréttaritarinn, "að erlendur guðfræðingur yrði kallaður?" — "Nei, ef að eins nokkur útlendingur væri til, sem hæfur væri og um leið fáanlegur. Eg veit ekki hvort nokkur slíkur maður er til í nágrannalöndunum. Við sænsku háskólana ræður nútíma-guðfræðin enn meira lögum og lofum en hjá oss. Og svo framarlega að nokkur guðfræðingur sé til í Danmörku, eða á Þýzkalandi, sem hæfur væri í stöðu þessa, er líklegast, að hann heldur myndi vilja vera kyr heima, en að ganga inn í fremur óvissa stöðu erlendis. *Auk þess er það sannfæring mín, að safnaðaprestaskólann beri að afnema þar sem hann hefir ekki lengur jarðveg í kirkju vorri".*[1]

Svona fórust honum orð, stofnanda og forstöðumanni þessarar einstöku stofnunar í október árið sem leið.[2] Hún hefir að eins verið við

1) Norsk Kirkeblad, 3. des. 1915, bls. 775.

2) Kristelig Dagblad birtir samtalið 4. nóv. 1915. Hér er það tekið eftir Norsk Kirkebl.

lýði síðan 1908 og var komið á fót með stórkostlegum fjárframlögum í frjálsum samskotum af hálfu heima-trúboðsfólksins norska um alt land, og gekst Odland fyrir. Fjórir hafa kennararnir verið, en nemendur á tímabilinu frá 1908 til 1911 að eins 26, síðan fremur fækkandi. Við það á prófessor Odland, þegar hann segir, að stofnan þessi hafi eigi lengur jarðveg í norsku kirkjunni.

6.

Þetta fordæmi Norðmannanna virðist mér næsta eftirtektarvert tákn tímanna. Eg bendi á það vegna þess, að mér finst það varpa svo miklu ljósi yfir það, sem er að gerast hér með okkur Vestur-Íslendingum. Nú er rétt að því komið hér í fylkinu að konur fari að nota það jafnrétti við karlmenn, sem þeim hefir þegar verið veitt. Má þá búast við að kvenprédikarar komi fram með oss Vestur-Íslendingum, eigi síður en öðrum. Hugsanlegt væri það að leikmanna-frjálslyndið kæmi því til leiðar, að það yrði þá samþykt á kirkjuþingi áður langt um líður, að konum skuli veittur aðgangur til að tala og kenna í kirkjunum íslenzku, svo þær fengi að njóta frelsisins til jafns við innlendar systur sínar. Hvað skyldi þá forsetinn og þeir embættisbræður hans, sem mestir eru bókstafstrúarmenn, taka til bragðs? "Ekki leyfi eg konum að kenna", segir Páll postuli, [1)]

1) 1. Tím. 2,12.

svo framarlega Timóteusar-bréfin sé eftir hann, eins og gömul guðfræði staðhæfir. Hvernig ætla þeir að fara með það postullega orð? Ætla þeir að segja af sér eins og Odland? Ætla þeir að sýna sannfæringu sinni svo mikla trúmensku? Eða ætla þeir að gefa bókstafstrúna—eftirlætis kenningu sína um innblásturinn—uppá bátinn?

Og safnaða-prestaskóla-hugmyndin, — er hún ekki náskyld skólahugmyndinni hér? Er eigi tilgangurinn með akademíið aðallega sá að vernda rétt-trúnaðinn? Óefað er það aðal-atriðið. Væri þjóðernisverndanin eina atriðið, myndi allir Vestur-Íslendingar taka höndum saman um skólamálið. Þeim er jafn-ant um þjóðernið öllum, ekkert síður þeim, sem utan kirkjufélagsins standa. En það er að eins auka-atriði, sem haft er að meira og minna leyti að yfirskini. Aðal-atriðið er að reisa gamalli guðfræði örugt vígi. Akademíið er lífsskilyrði, af því það er frá sjónarmiði kirkjufélagsins lífsskilyrði að auka veg þess og vald í baráttunni fyrir bókstafstrúnni, alveg á sama hátt og safnaða-prestaskólinn með Norðmönnum. Á bak við þessa stofnan stóðu miklu fleiri þúsundir í Noregi en til eru hundruð með Vestur-Íslendingum. Samt er sá maðurinn þar, sem bezt er fær um að dæma, kominn að þeirri niðurstöðu, eftir að eins sjö ára reynslu, að sú stofnan ætti að hætta að vera til, sökum þess að hún hefir engan jarðveg í þjóðlífinu. Þá hefir öllu því fé verið kastað á glæ, sem kostað hefir verið til af mikilli sjálfs-

afneitan. Eru líkurnar ekki býsna miklar til að sama verði upp á tening hér?

Eða þá að annað kæmi fyrir: Þeir menn kæmist hér í kennarastöðu, sem aðrar hugsjónir hefði í meiri hávegum en rétt-trúnað og bókstafstrú. Var ekki stefnt í þá áttina fyrir skemstu, þegar er kennari var kallaður, er þetta átti sannarlega við um? Og verður ekki öllum það augljóst nú, að þjóðernið er að eins haft að yfirskini — notað sem tálbeita — þegar talað er jöfnum höndum um að hefjast handa og taka að prédika á ensku fyrir Íslendingum? En jafnframt maður fenginn til að hlynna að fjársöfnun til skólans, sem líklegast er einna lengst frá hugarstefnu kirkjufélagsins allra núlifandi Íslendinga? Hann væri ekki lærisveinn heimspekingsins *Bergsons*, þess manns, sem líklega fremur flestum eða öllum öðrum má telja fulltrúa nútíma-vitundarinnar, ef ekki væri feikna-djúp staðfest milli andastefnu hans og andastefnu kirkjufélagsins. Það hefir verið sagt um safnaða prestaskólann í Noregi, síðan er fyrnefndum nýguðfræðingi var skipað þar í kennarastöðu, að nú væri ekki neinn sannleikur í stefnunni framar og skilningur Odlands laukréttur, að stofnanin hefði engan jarðveg í þjóðlífinu og ætti því að hætta að vera til.

Svo fer ávalt, þegar leikið er tveim skjöldum. Það er ekki ný guðfræði, sem styttir sér stundir með tvöfeldni, en það er gamla guðguðfræðin.

7.

Hugurinn hvarflar til Íslands.

Er það satt að ný guðfræði sé dauð eða í andarslitrunum þar?

Þar kemur út *Nýtt kirkjublað* og er biskup landsins ritstjóri þess. Svo að segja hvert tölublað þess ber það glögglega með sér, að það er nútímaguðfræðin, sem skipar öndvegi í huga ritstjórans, þó varlega sé farið. Prófessor Jón Helgason hefir nýlega ritað trúmálahugleiðingar sínar í Ísafold. Vöktu þær meiri eftirtekt og meira umtal en blaðagreinar um nokkurt annað efni, sem birzt hafa. Eins og eðlilegt var, komu fram andmæli gegn þeim hugleiðingum frá fylgismönnum gamallar guðfræði. Svaraði síra Jón Helgason þeim öllum með ítarlegri ritgerð, er hann nefnir: "Til andmælenda minna" og sérprentuð hefir verið. Mun fáum hafa fundist gömul guðfræði ríða heim feitum hesti frá þeim viðskiftum. Forsetinn var einn þeirra, sem tók til máls gegn *trúmálahugleiðingunum*. Var honum svarað hér fyrir vestan og af síra Jóni Helgasyni í "Breiðablikum" svo eftirminnilega, að næsta ólíklegt er, að forsetinn muni nokkuru sinni gleyma.

Nú hefir höfundur hugleiðinganna gefið þær út í bók, sem hann nefnir: *Grundvöllurinn er Kristur* og kom sú bók út síðastliðið sumar.[1] Með þá bók í höndum sitja þeir menn

1) Bókaverzlan Guðm. Gamalíelssonar, Rvík 1915, 152 bls.

þjóðar vorrar nú, sem annars láta sér trúmál miklu skifta. Sami höfundur er að gefa út kirkjusögu í þrem bindum. Tvö bindi eru þegar út komin, hið fyrra *Fornöldin* 1912, 310 blaðsíður að stærð, hið síðara: *Miðaldirnar* 1914, 392 bls. Þriðja bindið um siðbótina og fram á vora daga er nú á leiðinni og verður eflaust stærst. Um kirkjusögu þessa má segja hið sama og guðfræði nútímans yfirleitt. Það er kirkjusagan í nýju ljósi, — því ljósi, sem nútíðarvitundin hefir varpað yfir allar greinar mannlegrar þekkingar. Haraldur Níelsson prófessor prédikar stöðugt í Reykjavík og er á hann hlýtt með óvenju-miklum áhuga og aðdáan af fjölda fólks og ekki sízt af mentalýð höfuðborgarinnar. Prédikanirnar, sem eftir hann birtast smám saman í blöðunum, eru menn sólgnir í að lesa, og leita sér í að nýjum skilningi og skýringum í hinum æðstu efnum. En dómkirkjan hálf-tóm!

Fleira í sömu áttina er nú á leiðinni og að eins ókomið fyrir almenningssjónir, á íslenzka tungu, svo heita má einsdæmi í bókmentum vorum. Síðan á siðbótaröldinni hefir engin hreyfing fram komið í sambandi við íslenzka kristni, sem leitt hefir aðra eins auðlegð inn í vorn fáskrúðuga bókmentaheim og hugsanalíf í andlegum efnum og þessi. Þegar forsetinn hefir lesið allar þessar bækur, sem nú hefir verið bent á, bæði nýlega útkomnar og bráðlega væntanlegar, má það næsta undarlegt heita, ef honum finst að ný guðfræði

vera í andarslitrunum eða í þann veginn að skilja við. Það er gömul guðfræði, sem verður að sitja hjá og horfa með ólund á börn nýrrar guðfræði leika sér eins og lömb á stekk, en—sjálf er hún óbyrja — geldær, sem hefir ekki lyst á vorgróðrinum, en jórtrar sinunni frá í fyrra.

Og hvernig er þessu tekið með þjóð vorri? Vitaskuld eru nokkurir í hópi hinna eldri presta meðhaldsmenn gamallar guðfræði enn sem komið er. En þeir eru í minnihluta, sem hlýtur að verða minni og minni með hverju líðanda ári. Leikmanna lýður þjóðar vorrar er að langmestu leyti fylgjandi hinu nýja. Það eru víst hreinar undantekningar meðal íslenzkrar alþýðu, og helzt hvergi til nema í huga forsetans, "sem fengið hafa nýjan samhug með kirkjufélaginu og stefnu þess".[1] Miklu væri það sönnu nær að segja, að almenningur þjóðar vorrar á Íslandi fengi með hverju líðanda ári meiri og meiri óhug á kirkjufélaginu vestur-íslenzka og stefnu þess. Hvað sem annars mætti finna íslenzkri alþýðu til foráttu, verður alls ekki með neinum sanni um hana sagt, að hún hafi mestar mætur á 17. aldar guðfræði. Hitt má heldur til sanns vegar færa, að hún hafi meiri óbeit á úreltum trúarkreddum og meiri skömm á andlegu þröngsýni en alþýða annara landa.

Hvernig sem þetta er athugað, verður ekki annað sagt nú sem stendur, en að ný guðfræði

1) Sam. jan. 1916, bls. 327.

sé á bezta blómaskeiði með þjóð vorri og sé tekið tveim höndum víðast hvar sem miklu aðgengilegri skýring á sannindum kristinnar trúar en gamla guðfræðin var.

8.

Hvað eftir annað nefnir *Sameiningin* prestinn *R. J. Campbell* á Englandi sem sönnun þess, að ný guðfræði hafi þegar lifað aldurtilastund sína. Hann sagði prestsembætti sínu af sér við City Temple í London síðastliðið haust, sakir vanheilsu, er hann lengi hefir liðið af, og hefir síðan lengst af verið á herstöðvunum ensku á Frakklandi, prédikað fyrir hermönnum og huggað særða. Hann lét þess getið um leið, að ef heilsa hans batnaði, væri það huga sínum næst, að ganga inn í ensku kirkjuna. Samband hans við söfnuðinn var hið ástúðlegasta fram að síðustu stund og er hans sárt saknað, því enginn hefir gert City Temple eins frægt og hann.

Biskupinn í Birmingham hefir verið aldavinur hans frá gamalli tíð og skoðanabróðir. Nú vill svo til að hann þarf að fá prest til dómkirkjunnar í Birmingham, og er það bæði hálaunað embætti, hávirðulegt og hægt, því við kirkjuna munu settir tveir-þrír prestar aðrir. Biskupinum er ant um að fá einhvern frægan mann til dómkirkjunnar, helzta embættisins, sem hann á ráð yfir. Þá hugsar

hann til vinar síns Campbells og sýnir honum fram á, að hér sé embætti handa honum, þar sem hann þurfi ekki að leggja ofmikið á sig, en fái tækifæri til að láta mikla blessan leiða af starfi sínu. Campbell, sem upphaflega var barn ensku kirkjunnar og í henni fæddur og uppalinn, lét til leiðast. Hann sá, að um leið hafði honum tekist að rjúfa skilvegginn milli frábrigðinganna og kirkjunnar ensku, er staðið hefir eins og fjallgarður, er enginn stígur liggur yfir um frá því árið 1662. Þá neyddust ekki færri en 1800 til 2000 prestar til að ganga út úr ensku kirkjunni sökum þess, að 19. maí það ár höfðu lög öðlast gildi, sem harðlega bönnuðu bæði prestum og söfnuðum öll frábrigði í kenningu, helgisiðum og kirkjustjórn, að viðlögðum embættismissi og miklum hegningum.[1] Og árið 1665 var á þessu hert með strangleik afarmiklum með lögum, sem nefnd hafa verið *fimm mílna lögin*,[2] og harðbönnuðu frábrigðingum nokkurn sem helzt aðgang að embættum í ensku kirkjunni. Við þetta hefir síðan staðið. En nú eru skörð farin að koma í fjallgarðinn og fræg verður för þeirra og lengi í minnum höfð, sem fyrstir hafa lagt fótstíg yfir. Það er eitt af allra merkustu táknum tímanna, að farið er að rjúfa þenna ferlega skilvegg.

Síðan er deilurnar voru sem harðastar út af bók Campbells og frægð hans varð meiri á

1) Act of Uniformity.
2) Five-Mile Act.

skömmum tíma en flestra annara enskra presta, hefir öfundin einlægt elt hann í hópi Kongregazionalista og aldrei gróið um heilt til fulls, þó reynt hafi verið að lækna sárin í seinni tíð. Á hinn bóginn varð biskupinn í Birmingham að beita öllu lagi til að koma þessu í kring, án þess að vekja óspektir. Til eru afturhaldsseggir í ensku kirkjunni ekki síður en annars staðar og biskupinn vissi af nokkurum slíkum í umdæmi sínu. Bjóst hann við, að þeir myndi verða vondir, ef öðrum eins erki-trúvilling og Campbell væri hleypt inn í kirkjuna.

Þegar bók Campbells kom út, reis deila upp út af einu atriði hennar í sjálfum vinahópi hans með prestum Kongregazionalista. Það var út af skýringu hans á *immanens*-kenningunni, eða sambandi guðs við alheiminn. Einn allra-lærðasti presturinn og samverkamaður Campbells við blaðið *Christian Commonwealth*, dr. Warschauer, reit mikið á móti þessari skýringu Campbells á þessu einstaka atriði. Síðast reit hann heila bók, ágætis rit, sem eg vitnaði nokkurum sinnum til í fyrirlestri mínum, er eg nefndi: *Guðshugmyndin og únítaratrúin.* Heitir bókin *Problems of Immanence.* Dr. Warschauer hefir immanens-kenninguna í engu minna afhaldi en Campbell, en skýrir hana nokkuð á annan veg, og með meiri varfærni, á líkan hátt og enska kirkjan, sem upphaflega kom upp með hana og kann bezt með hana að fara. Það stóð ensku kirkjunni næst að svara *agnóst-*

*tkum,* mönnunum, sem sögðu að ekkert væri unt um guð að vita, ef hann annars væri nokkur til. Í immanens-kenningu ensku kirkjunnar fengu þeir þetta svar, og það hreif svo vel, að síðan hafa þeir mjög lítið látið til sín heyra. En út í öfgar má fara með þá kenningu ekki síður en aðrar. Og slíkra öfga verður vart í meðferð Campbells. Eg las það sem ritað var frá báðum hliðum eins vel og eg gat og mér duldist það ekki, að dr. Warschauer myndi þar hafa rétt fyrir sér. Þeir sögðu skilið með sér upp úr því vinirnir. En dr. Warschauer mun hafa sannfært vin sinn Campbell í því efni, og Campbell þess vegna síðan verið óánægður með framsetningu þessa atriðis í bókinni. Þeim kemur því saman um, biskupinum í Birmingham og honum, að hann skuli hætta að láta bókina koma út, sem annars hefði stöðugt verið endurprentuð í nýjum og nýjum útgáfum, þangað til honum gæfist færi á að endurrita hana og færa það á rétta leið, er honum sýndist. Þetta kæmi þá líka í veg fyrir það, að nokkur prestanna í ensku kirkjunni gæti vakið óspektir út af inngöngu Campbells.

*Arnljótur B. Olson*

9.

Fimtudaginn 24. febrúar var Campbell vígður til síns nýja embættis í dómkirkjunni í Birmingham og sunnudaginn næsta prédikaði

hann þar í fyrsta sinni. Sú prédikan hefir verið birt í *Christian Commonwealth*, en er öldungis almenns eðlis og þar alls ekki minst á tilefni né tildrög. Rétt fyrir vígsluna hafði maður einn að nafni *Kensit* ritað biskupinum af Kantaraborg hvað eftir annað og skorað á hann, þar sem hann er höfuð ensku kirkjunnar, að koma í veg fyrir það hneyksli að annar eins trúvillingur og Campbell fengi þar inngöngu. Kensit þessi reit erkibiskupinum á þessa leið 10. feb. síðastl.: "Guðfræði Campbells er alræmd fyrir að vera svo langt frá trúarjátningu kirkju vorrar, að torvelt er að trúa því, að við honum verði tekið sem presti á grundvelli þessara játninga, án þess að hann á einhvern hátt afturkalli opinberlega fyrri villur sínar". Það er auðsætt, að erkibiskupinn hefir ekki lagt sérlega mikla áherzlu á þessi andmæli, því hann virðir þau þess ekki að svara þeim sjálfur, en lætur aðstoðarprest sinn eða *chaplain* svara bréfinu. Það svar er svo:

"Erkibiskupinn er alls ekki í neinum vafa um, að biskupinn í Birmingham eða biskup í hverju umdæmi Englands sem væri, muni kynna sér til fullnustu trúarskoðanir hvers vígsluþega. Þó erkibiskupinn hafi enga opinbera tilkynningu fengið í því efni, heldur hann samt að sá maður, er þér nefnið, hafi hætt að láta selja bók, sem hann gaf út fyrir nokkurum árum, sökum þess að hún lýsi ekki lengur skoðunum hans fyllilega rétt.

Biskupinn í Birmingham, dr. *Russel Wakefield*, reit svo Kensit þessum fyrir kurteisis sakir nokkurar línur á undan vígslunni og segir: "Campbell prestur hefir verið nákvæmlega prófaður af fjórum ágætum klerkum, að því er trúarskoðanir hans snertir, og eru þeir algerlega ánægðir með rétt-trúnað hans. Fyrir nokkuru, í raun og veru áður en hann var endurtekinn inn í samfélag við ensku kirkjuna af biskupinum í Öxnafurðu, var hætt að selja bókina, sem Campbell reit fyrir nokkurum árum, að hans eigin tilstilli. Eðlilega hefir alt þetta valdið mér nokkurrar áhyggju og hefir krafist nákvæmrar athygli, en hiklaust get eg fullvissað yður um, að enginn þarf að efast um rétt-trúnað hans nú".[1]

Þessi yfirlýsing um rétt-trúnað Campbells kann nú að koma mörgum kátlega fyrir. En gæta verður þess, að orðið rétt-trúnaður er feikilega teygjanlegt orð. Í munni þessa Mr. Kensits, hver sem hann er, merkir það sjálfsagt eitthvað líkt og í munni rétt-trúaðra bræðra okkar í *Sameiningunni* og *Bjarma*, þar sem alt er miðað við játningarritin. En í munni biskupa ensku kirkjunnar merkir það alt annað. Í munni þeirra merkir það trú, sem er í beinu framþróunar-samhengi við trú feðranna. Þeim er annast um, að það samhengi sé hvergi slitið. Þeir halda því fram, að eins og framþróunar samhengið sé hvergi

1) Christian Commonwealth, feb. 23 1916, bls. 280.

slitið í náttúrunni, eins eigi það hvergi að slitna i trúarsögu kristinna manna. En eins víst og stöðug framþróan eigi sér stað í náttúrunni, eins víst álíta þeir allir, að framþróan, vöxtur og þroski sé lífsskilyrði í trúarefnum. Játningarnar hafa þeir í hávegum sem einn lið eða hlekk í þessari framþróan. Prestar ensku kirkjunnar mega benda á gallana og annmarkana, sem á játningunum eru, en mega ekki áfellast þær sem óhafandi. Þegar þeir hafa þær um hönd, mega þeir leggja inn í þær nútíma skilning sinn á guðfræðinni og þurfa alls ekki að láta samvizku sína vera bundna af fyrirmælum þeirra að neinu leyti. Það er því býsna rúmgott í ensku kirkjunni, enda er þar fult upp af mönnum, og það frægum guðfræðingum, sem rétt-trúaðir eru að eins í þessum skilningi. Þegar biskupinn í Birmingham fullvissar um rétt-trúnað Campbells, leggur hann þessa framþróunarmerkingu ensku kirkjunnar í orðið. Því framþróunar-kenningunni fylgir hann og allir biskuparnir ensku. Það er því alls eigi unt að byggja hið allra-minsta á þessari rétt-trúnaðar yfirlýsingu biskupsins um skoðanaskifti hjá Campbell, hvað sem um þau kann að vera.

Meðan deilan var sem hörðust út af nýrri guðfræði hélt Campbell því stöðugt fram, að hann í þessum skilningi væri rétt-trúaður, en andstæðingar hans rangtrúaðir. Campbell gerir yfirlýsingu í *Christian Commonwealth* 23. feb. síðastl. á þessa leið: "Í tilefni af hin-

um mörgu og oft og tíðum röngu ummælum út af tilbreytingu minni frá einni kirkjudeild til annarar, sem hvað eftir annað hafa birzt í blöðunum, biðst eg leyfis um að fá að segja í dálkum blaðsins, að þegar réttur tími er til, kem eg fram með eigin skýringu mína á þann hátt, sem mér sýnist, ef að tíminn verður þá ekki búinn að taka af mér ómakið". Kveðst hann eigi vilja vekja neinar deilur nú á þessum hörmungatímum.

Af því. sem nú hefir sagt verið, er það auðsætt, að Campbell hefir hingað til alls ekkert afturkallað, af því, sem hann hefir ritað, né nokkura kenningu, sem hann hefir flutt, hvað sem hann kann að gera hér eftir. Staðhæfingarnar í Sameiningunni um, að Campbell sé "horfinn frá *nýfræði* sinni og að hann sé horfinn frá kenningu bókar þeirrar, sem svo marga truflaði, er hún fyrst birtist",[1] eru því algerlega út í hött og hafa enn þá ekkert ábyggilegt við að styðjast. Það hefir mörg bókin komið út frá prestum ensku kirkjunnar í raun og veru eins frjálslynd og bókin hans. Það er enska kirkjan, sem tekið hefir feikna-breytingum frá því á 17. öld. Það sem hún þá braut, er hún nú að leitast við að gera gott aftur. Eftir vígsluna ritar einn prestanna í ensku kirkjunni, "að öllum flokkum ensku kirkjunnar sé Campbell hjartanlega velkominn; menn finni til þess, hve stórt spor hafi verið stigið til meiri

1) Sam. feb. 1916, bls. 376.

sameiningar milli frábrigðinganna og ensku kirkjunnar.

10.

Eg hefi verið að velta því fyrir mér, hvernig á því standi að menn, sem stöðu sinnar vegna ætti að vera sannleikselskir menn, gera sér svo lítið far um að segja satt og rétt frá því sem gerist, heldur sníða og snikka fréttirnar til í hendi sér eftir því sem þeim kemur bezt að hafa þær. Löngunin til að vinna andstæðingum sínum mein er vitaskuld fyrsta og helzta orsökin. En svo er líka önnur.

Mig rekur minni til þess, að við réttarhaldið í Pembina forðum bar síra Kristinn Ólafsson það fyrir réttinum, að hann læsi að eins eitt blað annað en Sameininguna og þekti því engin önnur og gæti eigi um þau borið. Forsetinn var þar líka og bar fyrir sama rétti, að hann hefði í öllu sömu trúarskoðanir og síra Kristinn, sem þá var rétt búinn að gera ítarlega grein trúar sinnar. Fyrir því býst eg við að eina kirkjublaðið, sem báðir lesa, annað en Sameiningin, sé blaðið *Lutheran*, sem út er gefið í Philadelphia af Pennsylvania-Þjóðverjum. Þar eru kirkjulegar fréttir ávalt stílaðar á þann hátt, sem blaðinu þykir bezt henta. *Christian Commonwealth* talar um Campbell með eins miklum hlýleik og áður og hann heldur áfram að rita í blaðið. Það lýsti

því yfir í nóvember 1915, að óhugsanda væri, að Campbell nokkuru sinni yrði annað en sá afar-frjálslyndi maður í trúarefnum, sem hann hefði ávalt verið. Nokkur straumur af prestum hefir verið inn í ensku kirkjuna úr frábrigðinga hópnum að fordæmi Campbells; sameiningarhugurinn á þessum hættutímum er svo sterkur. Í einu biskupsdæminu voru átta slíkir vígðir rétt fyrir jólin. En ekkert af þessu vilja rétt-trúaðir bræður vorir vita, né taka til greina. Skoðan þeirra virðist lík og Þjóðverja: Að öll fangbrögð sé leyfileg að minsta kosti í hernaði.

Frægur þýzkur prestur og skáld heitir *Fritz Philippi;* hann prédikar nú undir handarjarðri keisarans í Berlín. Kafli úr nýlegri prédikan eftir hann er að sögn á þessa leið:

*"Guðleg köllun Þýzkalands, ó bræður mínir! er að krossfesta mannkynið. Satan sjálfur er fram kominn í heiminum í mynd stórveldis eins — Englands — og verður að merjast sundur. Þýzkaland hefir fengið þá guðlegu skipan að framkvæma eyðingu þeirra, sem eru persónugervingar hins illa. Um leið og þetta ætlunarverk verður af hendi leyst, verður endurlausn mannkynsins afrekuð. Ríki réttlætisins verður þá stofnað hér á þessari jörð og þýzka keisaradæmið, sem skapaði það, heldur áfram að vera verndari þess".*[1]

---

1) Sbr. *The Great War.* London 1916, VI, 2.

Eg efast ekki um, að yður finnist þetta nokkuð furðuleg ummæli, komandi frá upplýstum presti. En svipaður þessum hugsunarhætti virðist hugsunarháttur vorra ástúðlegu og rétttrúuðu bræðra í kirkjufélaginu vera. Ef vér nú látum nýja guðfræði vera nafnið á stórveldinu, verða þessi ummæli býsna nákvæm lýsing á hugsunarhætti þeirra.

Gætum vér ekki vel ímyndað oss, að ræðukorn þetta stæði í Sameiningunni eða Bjarma á þessa leið:

"Guðleg köllun vor, ó bræður mínir, er að krossfesta nýja guðfræði. Satan sjálfur er fram kominn í heiminum í mynd stórveldis eins — nýrrar guðfræði — og verður að merjast sundur. Vér höfum fengið guðlega skipan um að framkvæma eyðingu ný-guðfræðinganna, sem eru persónugerving hins illa. Ríki réttlætisins verður þá stofnað hér á þessari jörð, og frónski rétt-trúnaðurinn vor, sem skapaði það, heldur úr þessu áfram að vera verndari þess".

Yður hlýtur öllum að liggja í augum uppi, að þetta er sami hugsunarhátturinn, — sama tóbakið. Fregnin um, að nú sé Campbell búinn að afturkalla alla sína *nýfræði*, er notuð eins og þýzkur kafbátur til að sökkva Lúsitania ný-guðfræðinganna. En það fór fyrir þeim kafbát eins og svo mörgum þýzkum kafbát öðrum, að áður en hann fekk unnið nokkurt mein, flæktist hann í stálneti og varð — fangaður.

## 11.

Hvert stefnir í heiminum?

Í stjórnarfarslegu tilliti virðist stefna inn í stór ríkjasambönd, þar sem mörg þjóðerni og margar tungur eiga sambýli eins og á sama heimili — undir sama ægishjálmi. Stóru þjóðirnar halda hlífiskildi yfir smáþjóðunum og vernda réttindi þeirra. Alt sem heitir maður á að eiga 'pláss í sólunni' og engu þjóðerni á að líðast að gína yfir öllu blessuðu sólskininu.

Á trúarsvæðinu virðist stefna inn í alls herjar kirkju framtíðarinnar, þar sem margbreytt skoðan og margbreytt lund sitja saman eins og stór fjölskylda, hver við hlið annarar, við náðarborð sameiginlegs föður, auðgandi og göfgandi hver aðra með sínum sérstaka skilningi og sinni andans gáfu. Ein alls-herjar skoðan er fráleit hugsjón og öldungis óhafandi og það er langt frá að stefni í þá áttina. Margbreyttu skoðanirnar skapa líf. Þær eru lífsskilyrði, þroskaskilyrði, vaxtarskilyrði. En sami andinn og sama vonin verða að fylgjast að. Í sambandi við eilífðina finst oss það sjálfsagt. Þar eru allir skilveggir rofnir. Þar eru engin hólf, engar klíkur, engar skorður reistar samfélaginu. Og flest, ef ekki alt, sem vér hugsum oss í sambandi við eilífðina, er framkvæmanlegt hér. Hugur vor nær ekki lengra en það sem nokkurra alda framþróan hér á þessari jörð getur til leiðar komið.

Hve nálæg sú tíð er, að fegurstu hugsjónir

vorrar aldar nái fram að ganga, skal eg láta ósagt. En hvort hún heldur er nálæg eða fjarlæg, erum vér að færast henni nær með töluverðum hraða. Ný guðfræði hefir stórkostlega flýtt fyrir henni með því að kenna mönnum að þekkja og kannast við hið sameiginlega í allri trú. Og það finst mér hljóti að verða ein allra stærsta sælan í eilífðinni að hafa þar þá meðvitund, að hve ófullkomnir og breiskir sem vér vorum hér, reyndum vér þó af alefli að greiða hugsunum drottins veg og styðja þær í baráttunni, fremur en að tefja fyrir þeim og hefta framgang þeirra. Það getur eigi annað en orðið hið mesta angur í eilífðinni að hafa þar þá tilfinningu, að maður hafi verið öllum kröftum og orku til þess að verða hugsunum kærleikans mönnunum til velferðar Þrándur í Götu. Skelfing hlýtur Faríseunum, sem uppi voru á dögum frelsarans, að hafa liðið illa, er þeir komu yfir í aðra tilveru og augu þeirra opnuðust, svo þeir sáu allan sinn háskalega misskilning. Þá höfum vér lifað til verr en engis. Á endanum knýr drottinn alt í sína þjónustu. Stríðið, sem uppi er, eitt stærsta böl, sem mannshugur kann að mála. En lífshættan og sársaukinn, sem það hefir í för með sér, virðist ætla að þrýsta hugum fjöldans inn á vegu drottins. Enn rennum vér ekki nema að litlu leyti grun í, hver áhrifin kunna að verða á andlega lífið, sem þessi voða styrjöld hefir í för með sér.

12.

Hvert stefnir kirkjufélagið?

Mörgum kann að virðast, að sú spurning komi þeim alls ekki við, sem utan kirkjufélagsins standa. En það er sterkasti og útbreiddasti félagsskapurinn með Vestur-Íslendingum og stefna þess getur því ekki verið þýðingarlaus fyrir allan fjöldann. Enda talar það oft eins og það eigi alla Vestur-Íslendinga með húð og hári. Þeir sem Sameininguna lesa og hverju orði hennar trúa eins og nýju neti, álíta sjálfsagt allir, að kirkjufélagið sé *the only pebble on the beach,* — eini hnöllungurinn í fjörunni hér vestan hafsins. Það getur því naumast nokkur látið sér standa á sama hvert kirkjufélagið stefnir, því áður en varir getur einhverjum jafnvel til hugar komið að eigna oss stefnu þess.

Samkvæmt því, sem forsetinn nú heldur fram, á það hér eftir að vera stefna kirkjufélagsins að fara að viðhafa enska tungu, við guðsþjónustur, fyrst svo sem til hálfs meðfram íslenzkunni og svo algerlega. Þetta álítur hann að eigi að vera stefna þess, til þess að halda í fólkið. Unglingarnir sé íslenzkunni fráhverfir og sé hættir að skilja hana að miklu leyti. Eina leiðin til þess að halda í þá, sé að fara að kenna þeim kristindóminn á ensku og prédika fyrir þeim á ensku. Með því einu móti sé kirkjunni eða kirkjufélaginu borgið að því, er framtíðina snertir.

Fúslega skal eg við það kannast, að hér er um töluverðan vanda að ræða. En þau vandkvæði, sem á eru, eru að ætlan minni of snemma upp borin og meira úr þeim gert en enn þá er ástæða til. Bæði eg og aðrir hafa fyrir löngu hugsað um íslenzkuna og afdrif hennar með þjóðarbrotinu vestan hafs. Það liggur svo sem í augum uppi, að um aldur og æfi verður hún ekki daglegt mál afkomenda hins vesturflutta fólks. Einhvern tíma hlýtur að því að koma, að hún verði þeim, sem hér eru fæddir, svo ótöm, að þeir kinnoki sér við að nota hana. Það má heita mikil furða, hve vel hefir verið haldið í málið af fjölmörgum. Margir þeirra, sem hér eru fæddir og uppaldir, mega heita að kunna íslenzku mæta vel. Til eru velgefnir unglingar og þeir alls ekki svo fáir, sem fæddir eru og uppvaxnir úti í bygðunum íslenzku og byrjað hafa nám við mentaskólana hér á fimtán ára aldrinum, sem mér hafa virzt mundu standa lítið lakara að vígi með að veita viðtöku tilsögn í móðurmáli sínu en jafnaldrar þeirra á Íslandi, sem byrja nám við mentaskólann þar. Allur fjöldi þess unga fólks, sem upp vex úti á landsbygðunum tala enn íslenzku svo að furðu lítið heyrist á mæli þess. Og að ferðast þar um meðal fólksins er næsta líkt því að ferðast um og eiga tal við fólk í sveit á Íslandi. Hvort það verður eins að 25 árum liðnum eða hvort það verður eins með aðra kynslóð þeirra, sem hér eru bornir og barnfæddir, skal eg láta ósagt. Eg hefi á-

valt forðast allar áætlanir um það í huga mínum. Mér hefir fundist ráðlegast að hlúa að íslenzkunni eftir megni, eins lengi og mér væri unt, og láta svo forsjónina ráða, hvað verða kynni eftir minn dag. Og eg hefi gert það mest ef til vill með því móti, að forðast að tala annað en íslenzku í hóp Íslendinga, ekki sízt þegar eg hefi verið með unga fólkinu. Eg hefi ekki gengið að því gruflandi, að þau öflin, sem draga unga fólkið inn í hið enska þjóðlíf, kenna því enskt tungutak og leiða það inn í enskan hugmyndaheim, eru svo mörg og máttug, að þeim þarf ekkert lið að leggja, nema þá óbeinlínis. Heimilið og kirkjan er eina taugin, sem heldur íslenzkum ungmennum við þá þjóðernisrót, sem þau eru vaxin upp af. Mér hefir fundist það heilög skylda mín og heimilanna að láta ekki þessa viðkvæmu taug slitna of snemma, til þess lundin eigi líði við það tjón, er seint eða aldrei yrði bætt.

Heimilin íslenzku gæti gert mikið meira en þau gera til viðhalds íslenzkunni, ef áhugi væri nógur og löngun til þess. Þegar eg á tal við fólkið, furða eg mig oft á hve mikla íslenzku það kann. Ramíslenzkir talshættir og líkingar velta upp úr mönnum ósjálfrátt í viðtali, jafnvel þó þeir annað hvort hafi verið hér meira en fjórðung aldar, eða sé hér bornir og barnfæddir. Ef nú foreldrarnir vildi kenna börnum sínum þá íslenzku, sem þau kunna, bæði daglegt mál og bókmál, gæti þau miklu áorkað. Það ætti að vera þeim hinn

mesti unaður. Eg þekki ekkert hugnæmara starf en að koma unglingum í skilning um fegurð og ágæti vorrar yndislegu tungu. Að sjá svo um, að börnin skilji og kunni að nota íslenzka tungu, er miklu meira virði en býsna mörg hundruð í löndum og lausum aurum. Það þarf margar þúsundir til að jafnast við þá arfleifð. Af almennum fræðum er þetta nokkurn veginn hið eina, sem foreldrarnir gæti kent börnunum sínum. Þau heimilin, sem gera það bezt, sýna hve mikið má ef vill, og þó eru það ósjaldan fátækustu heimilin, þar sem foreldrarnir virðast fæstar tómstundir hafa. Foreldrarnir gæti líka gert sér meira far um að útvega börnunum tilsögn í íslenzku, þann tímann, sem þau ganga ekki í annan skóla, eða þá á kveldum. Kenslustundin þarf ekki að vera nema örstutt, ef hún að eins er reglubundin og ekki er hætt, fyrr en unglingurinn er kominn bærilega niður í móðurmáli sínu og farinn að láta sér verða vel við það. Lítilsvirðing og óbeit á íslenzkunni eiga heimilin að keppast við að uppræta úr huga barnanna, eins og annað skaðræði, sem eigi má festa þar rætur. Það getur hvert heimili, sem vill. Reynslan hefir sannfært mig um það.

Þeir sem hér kasta móðurmáli sínu alt í einu líða við það óumræðilegan baga. Tungan og þjóðernið eru svo saman undin eðli voru, að vér glötum feikilega miklu af sjálfum oss, þegar vér skyndilega vörpum því frá oss og íklæðumst öðrum fjaðurham, lánuðum frá öðr-

um. Látbragð og mál þess manns, sem alt í einu hættir að tala tungu feðra sinna, tekur upp háttu annarar þjóðar og fer að reyna að vera eitthvað alt annað en feður hans voru, verður lang-oftast ofur-mikil tilgerð og apaspil. Hann kemur fyrir eins og sá, sem týnt hefir skugganum sínum og verður vanalega í litlum metum með þjóðinni, sem hann treður sér undir vænginn á. Hann kemur henni fyrir sjónir sem uppskafningur.

Sakir alls þessa þarf að hafa hina mestu varfærni, gefa sér góðan tíma, færast hægt og gætilega úr hinu gamla, og einúngis að því leyti, sem nauðsyn krefur, en gleyma aldrei hver maður var, reyna aldrei til að afneita sjálfum sér né forfeðrum sínum, kannast við frammi fyrir öllum lýð af hvaða bergi maður er brotinn, og eigi þykja minkun að vera fæddur af lítilli þjóð. Lincoln þótti engin minkun að bjálkakofanum, sem hann var fæddur í. Hví skyldum við skammast okkar fyrir íslenzku baðstofuna?

Menn læra ekki nýja tungu, nýja siðu og háttu, nema með löngum tíma, svo að vel sé. Það verður að vera hægfara vöxtur gegn um fleiri ættliði, frá einni kynslóð til annarar, ef menn eiga ekki að glata sjálfum sér og verða að eins eftirhermur. Það þurfa fleiri kynslóðir til að þetta geti orðið á eðlilegan hátt. Svona óumræðilega viðkvæmt er manneðlið. Hættan er nokkurn veginn ávalt sú, að þetta nái fram að ganga með hraða alt of miklum. Við

það líða menn tjón á sálu sinni, — verða oft og tíðum minna en ekki neitt. Stundum getur fastheldnin orðið svo mikil, að hún verði óeðlileg og standi fyrir þroska og þrifum. Það hefir að allra dómi átt sér stað með *Pennsylvanía*-Þjóðverja, sem myndað hafa sérstaka mállýzku, þýzka að mestu, en með málmynda einkennum, sem engin önnur þýzk mállýzka hefir. Þeir hafa líka verið í landinu á þriðju öld. Þeir eru menn, sem dagað hefir uppi að flestu leyti. En þeir eru nokkurn veginn eins dæmi. Arnljótur B. Olson

## 13.

Það er fárast um, "að sú ömurlega villukenning hafi komið fram, að vér Íslendingar í landi þessu ættum að einangrast, afkvía oss, hafa sem minst samneyti við annað fólk, hafa alt félagslíf og samkvæmislíf sér og vera alt af útlendingar í landinu".[1] Mér er spurn, hvar hafa þessar "öfgakenningar þjóðernisvinanna" komið fram í vorum hópi? Eg man ekki eftir þeim. Eg leita í huganum í blöðum og tímaritum, sem út hafa komið hér vestan hafs og eg finn þessa einangrunarkenning hvergi. Eg tel upp með sjálfum mér nöfn þeirra manna, sem hér hafa helzt verið fyrir framan um íslenzk mál, hvort heldur prestar eða ritstjórar eða stjórnmálamenn, og eg man

1) Hvert stefnir? Sam. jan. 1916, bls. 323—4.

alls ekki eftir að unt sé að klína þessari einangrunarkenningu við nafn nokkurs þeirra. Að vísu var nýlendusvæðið í Nýja Íslandi upphaflega afmarkað handa Íslendingum einum, af eðlilegum ástæðum, þar sem Indínar og kynblendingar voru þar alt í kring. En svo var þessi takmarkan upp hafin snemma og öllum þjóðum leyft að setjast þar að sem annars staðar. Aldrei man eg til að *Framfari* flytti þá kenningu og tilhæfulaus ósannindi væri það að bendla nafn Sigtryggs Jónassonar við hana, en hann réð öllu um stefnu blaðsins, eins og kunnugt er. Sú kenning hefir vissulega alls ekki bakað oss Vestur-Íslendingum neitt tjón. Hún hefir aldrei verið flutt af neinum málsmetandi manni, enda er hún eðli voru Íslendinga fullkomlega andstæð. Vér höfum meðfædda óbeit og andstygð á allri einangran. Þeir, sem mest og bezt hafa hlúð að íslenzku þjóðerni hér, hafa aldrei látið sér til hugar koma að gera það með því móti. Síra Jóni heitnum Bjarnasyni fanst það aldrei skylda sín, fremur hið gagnstæða. Á hinn bóginn mun hann aldrei hafa álitið það lífsskilyrði að farið yrði að kenna á ensku í sunnudagsskólunum eða prédika á ensku í íslenzku kirkjunum. Íslendingar hafa aldrei fylt flokk þeirra útlendinga, sem hafa viljað troða máli sínu inn í alþýðuskólann, því þeir hafa látið sér skiljast, að eðlilegast væri að sú stofnan væri algerlega til þess að gera menn að upplýstum mönnum í landi þessu og góðum

borgurum. Þeim hefir fundist sjálfsagt, að kenslan þar færi ávalt fram á máli landsins barna.

Fyrir því er þessi sletta um þjóðernis öfgar algerlega úr lausu lofti gripin. Hún er búin til, smíðuð og framsett einungis í þeim tilgangi að sverta einhverja ónafngreinda menn, sem ekki eru til og aldrei hafa verið til. Hún er gott sýnishorn þeirra staðlausu staðhæfinga, sem Sameiningin nú temur sér. Eg vísa henni algerlega á bug, hvort heldur í sambandi við sjálfan mig eða aðra, sem tilhæfulausum heilaspuna. Við Vestur-Íslendingar höfum sannlega enga tilhneigingu haft til að einangra okkur. Við höfum enga löngun haft til að vera Pennsylvaníu-Þjóðverjar, — nema hvað forsetinn er nú að reyna að kenna mönnum að vera það í trúarlegu tilliti. Hann er nú að leitast við að koma kirkjufélaginu inn í andlega og trúarlega einangran, margfalt hættulegri en þá þjóðernislegu.

14.

Þegar seilst er yfir til Norðmanna og Svía í Ameríku því til sönnunar, að vér eigum sem fyrst að snúa við blaðinu og fara að tala eintóma ensku í okkar hóp, í kirkju og heimahúsum, í ræðu og riti, þá mega menn ekki gleyma því, að svo miklu lengra er liðið síðan þeir komu hingað vestur um haf en vér Íslending-

ar. Þeir Íslendingar, sem lengst hafa verið hér, komu hingað vestur að eins fyrir 40 árum. Meginþorri Íslendinga hafa ekki verið hér nema 25—35 ár. Það er enginn langur tími. Börn þeirra, sem hingað fluttust frá Íslandi, eru nú orðin fullorðin og farin að eiga með sig sjálf. En börnin þeirra, önnur kynslóð þeirra, sem hér eru af íslenzku bergi brotnir, enn þá naumast komin á legg, en fara nú smám saman til þess.

Norðmenn eru að minsta kosti 50 árum eldri í landinu en Íslendingar. Kring um 1825 tóku Norðmenn að flytju unnvörpum til Bandaríkjanna. Með Norðmönnum í Ameríku er *Hauges*-sýnóda elzta kirkjufélagið, stofnað 1846. Norska-sýnódan var stofnuð 1853. Svíar mynduðu Augustana-sýnóduna 1860. En kirkjufélagið var myndað fyrst 1885. Það er 39 árum yngra en Hauges-sýnódan, 32 árum yngra en norska sýnódan og 25 árum yngra en Augustana-sýnódan. Ef vér Íslendingar ættum nú að fara að herma það eftir Skandínöfum að taka upp siðu, sem þeir að eins að mjög litlu leyti og með mestu varfærni eru teknir að leiða inn hjá sér alveg nýlega, værum vér að flýta oss með þessi hamskifti helmingi neira en þeir hafa gjört. Það sem tekið hefir 70 ár að undirbúa í Hauges-sýnódu, 63 ár í norsku sýnódunni og 56 ár í Augustana-sýnódunni, það eigum vér Íslendingar nú að fara að flýta oss með eftir að eins 30 ár. Það er óeðlilegur hraði og óhollur.

Mér er nær að halda að það sé reglulegur *bjarnar*-greiði, sem hver sá vinnur þjóðflokki vorum, er gerir sér að skyldu að reka þar á eftir. Það er fullkominn óþarfi. Öflin eru nógu mörg og máttug, sem toga í þá áttina. Miklu þarfara er með orði og eftirdæmi að leitast við að halda tungu vorri og þjóðerni sem lengst við og kenna unglingunum, sem hér vaxa upp að meta sem mest söguna, er vér eigum oss að baki. Það er lélegur maður, sem ekki hefir annað en eitthvað ljótt og lélegt um foreldrana sína að segja og vill helzt ekki við þau kannast. Sá verður lélegur borgari, sem lítilsvirðir tunguna, er forfeður hans töluðu og söguna, sem *saman* er ofin af sigrunum, sem þeir unnu, og sársaukanum, sem þeir liðu. Eins og skuggalausir menn, eins og tómhentir öreigar, megum vér ekki koma fram fyrir þjóðina er vér viljum búa hjá og starfa með.

15.

Mig uggir líka, að við mundum af þessu hafa skapraun eina og ekkert annað. Eg óttast að við mundum lítið fremur halda íslenzkum unglingum föstum í sérstökum félagsskap, þó tekið væri að nota ensku í kirkjunum öðrum þræði.

Eldra fólkið, sem er al-íslenzkt, myndi taka sér það afar-nærri. Það myndi segja: Til hvers höfum við verið að leggja alt þetta á

okkur? Nú er tekið að nota kirkjuna sem við höfum reist með súrum sveita og mikilli sjálfs afneitan, til þess að útrýma íslenzkunni, sem við höfðum mesta unun af að heyra talaða hreina og óbjagaða í kirkjunni. Nú eru prestarnir, sem við höfum kallað og launað, teknir að reka það á dyr, sem okkur tók sárast til og langaði mest til að varðveita. Í stað þess að hjálpa okkur og styðja í því, að kenna börnunum okkar tunguna fögru, sem túlkað hefir gleði og grát feðra vorra og mæðra, hugmyndir trúarinnar hafa borist á inn í sálir vorar og flutt hefir bænir vorar fram fyrir föðurinn á himnum, eru þeir nú í óða önn með að láta hverfa og gleymast, einungis af þeirri hégómahvöt að skreyta sig enskunni, til þess betur að geta dulið fátækt hugsana sinna. Á þessa leið myndi fjöldi eldra fólksins hugsa og tala. Margt af því myndi hætta að sækja kirkju og sinna henni fyrir bragðið.

Og unglingarnir. Hvað myndi þeir hugsa? Myndi þeim ekki finnast fult eins mikill ávinningur að hlýða á alinnlenda presta, hér í þessari borg t. d., þar sem svo að segja hver prestur má heita fyrirtaks mælskumaður, auk þess sem þeir eru hámentaðir menn, með víðan og frjálsmannlegan sjóndeildarhring. Mentan prestanna í kirkjufélaginu og þekking þeirra öll í almennum efnum og guðfræðilegum — er í samanburði við þekking og mentan innlendu stórborgarprestanna, sem flestir eru úrvalsmenn og útskrifast hafa frá helztu mentastofn-

unum landsins og heilmargir frá háskólum Norðurálfunnar, ekki nema eins og lítilfjörleg barnaskólamentan. Sá mismunur í mentan og andlegum þroska myndi verða enn auðsærri og tilfinnanlegri, þegar þeir væri farnir að tala enska tungu og standa uppi í eðlilegri samkepni við borgar-prestana innlendu.

Gamla fólkið myndi segja: þetta gera þeir til að dylja með efnislitlu orðagjálfri fátækt hugsana sinna. En yngra fólkið myndi segja: Hefði þeim ekki verið nær að halda áfram að tala íslenzku? Ræðurnar þeirra eru ekki annað en þrítugasta þynning þess, sem talað er í hinum kirkjunum, fullar þröngsýni og þrjúhundruð ára gömlum guðfræði-kreddum. Svo rammur myndi keimurinn af guðfræði Pennsylvania-Þjóðverja verða í munni unga fólksins, sona og dætra íslenzku innflytjendanna. Þá fyrst kæmi það fullkomlega í ljós, hve guðfræði kirkjufélagsins er orðin úrelt og örvasa.

16.

Nýmæli þetta er þeim mun furðulegra, sem það er þarfleysa, er ekkert er unnið með enn þá sem komið er. Við uppfræðslu unglinga hefi eg á hverju ári leitast við að komast eftir hjá börnunum, hvort þau skildi betur ensku orðin en þau íslenzku, sem hugmyndir kristindómsins felast í. Eg hefi ávalt komist að þeirri niðurstöðu, síðast nú í vetur, að í rauninni

skilja þau þessi orðtæki ekkert betur á ensku en íslenzku, nema síður sé. Flest ef ekki alt, sem þau vita og skilja í þeim efnum, hefir komist inn í huga þeirra á máli föður og móður. Þau kunna að hafa lært ensku orðin, en gengur einmitt lakara að setja nokkura hugmynd í samband við þau. Þau eru svo stór og erfið, oft og tíðum úr grísku eða latínu. Íslenzku orðin aftur langflest létt og auðveld og hafa það sér til ágætis að þau eru gagnsæ. Sá sem á annað borð gefur sér tíma til að hugsa um þau, finnur hugmyndina ósjálfrátt renna upp hjá sér. Annmarkinn á bæjarbörnunum íslenzku er það, að þau fást svo sjaldan til að beita hugsan sinni; hún er eins og fugl úti á þekju, — eins og kría á skeri. Þau fást ekki til að staðnæmast, vilja ekki leggja svo mikið á sig, fjöldinn af þeim. Þau hafa því miður svo undurlítinn áhuga á lífinu, nema til leika og skemtana. Ósjaldan hefir mér virzt, að þau helzt muni læra það á barnaskólunum, að taka ekki eftir. Þau hafa lang-flest óbeit á bókum í stað þess að vera bókelsk. Lang-flest þeirra langar fjarska lítið til að vita, en mikið til að ólmast. Lífið eins og það er í skólagörðunum í frístundunum, — það er þeirra líf.

Eg kenni sárt í brjósti um íslenzku bæjarbörnin. Þau eru flest vel gefin og að öllu leyti vel gerð. En því miður eru ekki í mínum augum miklar líkur til, að þau verði betur dugandi menn og konur en foreldrar þeirra hafa verið, — þrátt fyrir það að þau virðast

standa þeim margfalt betur að vígi, — nema þá einstöku. Þetta er einungis fyrir áhrif óhræsis bæjarlífsins á þau á uppvaxtarárunum. Sumpart er það vegna þess, hve feður þeirra og mæður hafa verið vinnubundin. Þau hafa verið svo háð daglegum störfum, að þau hafa sogað allan huga þeirra og alla orku til sín og sökum þess hefir börnunum verið mikils til oflítið sint, en allri áhyggju varpað upp á skólana.

Á þessu hygg eg að verða muni fremur lítil bót, þó farið verði nú þegar að prédika á ensku í kirkjunum.

Lang-flest hverfa íslenzku ungmennin út úr Íslendingahópnum, þegar þau giftast innlendum. Bæði verður þá bústaður þeirra oftast fjarlægur íslenzkum heimilum og þau út úr. Ósjálfrátt hverfa þau inn í það mannfélag, er það hjónanna heyrir til, sem er af innlendu bergi brotið. Þau hverfa þá annaðhvort inn í þá kirkjudeild, sem venzlafólkið heyrir til, eða lenda utan allra kirkna eftir ástæðum. Af því fólki fæ eg ekki skilið, að neitt yrði fleira í íslenzkum kirkjum, þó prédikað væri þar á ensku. Og eg hefi alls enga trú á því, að við drögum innlent fólk inn í íslenzka söfnuði með enskri prédikan. Til þess yrði fólkið hér í Kanada að hafa útlendingana (*the foreigners*) í ögn meiri hávegum en það gerir.

17.

Mér finst að úti muni verða um íslenzkan félagsskap um leið og íslenzkan hverfur, ekki undir eins í bili, en bráðlega. Mig uggir stórlega, að kærleikurinn til lútersku kirkjunnar sé naumast svo mikill, að hann haldi mönnum saman eftir það. Eg fæ ekki skilið, að nokkurum muni finnast, að þeir falli út úr kristninni, þótt þeir gangi inn í einhvern hérlendan söfnuð, sem ekki er lúterskur. Mér hefir aldrei verið unt að komast í skilning um, að það sé kristileg aðferð að ætla sér að halda lúterskunni við, með því að vekja þann hleypidóm í brjóstum manna, að þeir verði síður sáluhólpnir með því móti. Munurinn í trúaratriðum milli aðal-deilda mótmælenda má nú heita alveg horfinn. Það, sem lúterska kirkjan stóð hinum framar í, hafa þær nú fyrir löngu tileinkað sér. Agnúana, sem framan af voru á stefnu þeirra, lögmálsblæinn og lagaskilninginn, hafa þær losað sig við. Og að sumu leyti voru þær frá byrjan vega óneitanlega fremri lútersku kirkjunni og eru enn. Sannleiksástin þrýstir manni til að kannast við það.

Eg fæ því ekki fylt flokk þeirra, sem láta sér finnast það stærsta bölið, þó fólk vort að einhverju leyti hætti að vera lúterskt, um leið og það hættir að kunna og nota íslenzka tungu. Eins og lúterska kirkjan er hér í Vesturheimi, finst mér hún ekkert keppikefli. Og

svo framarlega sem afkomendur vorir verða upplýstir menn, skil eg ekki, að lút. kirkjan, eins og hún er hér í landi, hafi sérlega mikið aðdráttarafl fyrir þá. Í henni eru nær því eingöngu Þjóðverjar og Norðurlanda-búar. Í General Council eru langflestir Pennsylvania-Þjóðverjar, sem eg hefi minst á áður, og Svíar, að því er Augustana-sýnóduna snertir. Þegar fólk þetta er borið saman við innlenda Bandaríkjamenn, held eg engum blandist hugur um, að það stendur þeim töluvert að baki í almennri upplýsingu og menningu. Skólarnir þeirra eru bezti mælikvarðinn. Og þá þekki eg svo vel, að eg þykist allvel fær um að dæma. Þeir eru allir langar leiðir aftur úr beztu mentastofnunum innlendum. Guðfræðinni er þar lang-mest um að kenna. Þar hefir það bandalag orðið með Þjóðverjum og Skandinöfum að fara ekki í nokkurum hlut feti framar en játningarnar, sem til urðu á 16. öld, en rígbinda sig við þær í einu og öllu. Í guðfræðilegu tilliti lifa þessir menn allir í hugsanaheimi 16. og 17. aldar og þverneita að hreyfa sig eitt hænufet út úr honum.

Þeir þykjast skyldugir til að trúa hverju orði ritningarinnar bókstaflega. Skyldugir til að trúa því, að heimurinn sé skapaður á sex sólarhringum, 24. klukkustunda löngum. Þeir álíta það sáluhjálparsök að trúa sögunni um Nóa og örkina og gera sér grein tungumálablendingsins í heiminum á þann hátt, sem gert er í sögunni um Babel-turn, — að guð hafi

orðið hræddur um, að Babyloniumenn ætluðu að reisa turninn svo háan, að hann næði alla leið upp í hlaðvarpann hjá honum og hafi þess vegna flýtt sér ofan til þeirra og ruglað tungumál þeirra, svo að þetta færist fyrir. Kenningin fræga um *plenary*-innblástur er höfuðkenning þeirra, og sökum hans sjálfsagt að trúa sögunni um hvalinn, sem svalg Jónas. Samkvæmt kenningunni um plenary-innblástur hefir einstaklingurinn engan rétt til að hafna neinu í ritningunni. Þeir segja, að dómgreind einstaklingsins sé alls ekkert svigrúm gefið við að ákveða, hverju skuli trúa og ekki trúa.

Þetta staðfestu þeir fullum eiðstaf fyrir rétti, forsetinn og síra Kristinn Ólafsson. Og þetta sóru norskir og þýzkir prestar með þeim, að væri hin eina og sanna guðfræði lúterskrar kirkju í Ameríku.

Þegar um það er rætt að fara að prédika á ensku fyrir Íslendingum, þá er það þessi guðfræði, sem höfð verður á boðstólum. Og hún stingur býsna mikið í stúf við þann skilning á tilverunni og kristindóminum, sem ræður hér í landi með upplýstum mönnum. Hún brýtur algert bág við flest af því sem kent er hér á alþýðuskólunum. Og hún er gjörólík þeirri guðfræði, sem kend er við St. Johns College hér í bænum, Manitoba College og Wesley College. Þetta stingur svo í stúf við þá guðfræði, sem prédikuð er í öllum heldri kirkjum þessarar borgar, að það er eins og að koma í

annan heim. Munurinn er eins mikill og munurinn á 16. og 17. öld, og þessari 20. öld, sem við lifum á. Og mér er eigi unt að skilja, að æskulýðurinn, sem upp vex hér í landinu af íslenzku þjóðerni, verði svo skyni skroppinn, að hann finni eigi þenna mismun. Eg skil ekki, að hann verði sérlega fús til, að halda þessari tegund lútersku við um aldur og æfi.

18.

Þegar talað er um, að kirkjufélagið gangi inn í General Council, þá er tilgangurinn sá að binda það við þessa guðfræði eins lengi og nokkuð er eftir af því. Þá gæti Íslendingar fengið þýzka General Council presta til að verða prestar hjá sér, þegar svo bæri undir. Þá væri 17. aldar Þýzkaland búið að skipa þýzkum herforingjum yfir aumingja landann eins og nútíðar Þýzkaland hefir gert við Tyrkjann.

Mér er vel við lútersku kirkjuna. Mér er bezt við hana allra kirkna. Eg ber lotningu fyrir henni og hugsanastarfi hennar, þar sem hún heldur áfram að vera siðbótarkirkja og er það á þessari 20. öld, sem hún var fyrir heiminn á 16. öld. Eg ber lotningu fyrir því hugsanastarfi, sem hún vinnur þann dag í dag á Þýzkalandi, í Svíþjóð, í Noregi, í Danmörku. Þar verður kirkjan nokkurn veginn samferða því fremsta stigi, sem þekking og upplýsing hefir náð.

En eg ber enga lotningu fyrir eigin kirkjudeild minni eins og hún er hér í Ameríku. Því miður, eg get það ekki, þó eg fúslega kannist við, að margt gott kann hún að hafa í fari sínu. Mér hrýs hugur við mörgu. Mér hrýs hugur við því, að íslenzkan skuli eiga fyrir hendi að deyja út hjá fólki af íslenzkum ættum í landi þessu. Mér finst það svo sárt, að bresta skuli lundfestu og myndarskap til að geyma hana og nota jafnt enskunni. Það er sannfæring mín, að það yrði því ekki neinn farartálmi á þroskaleiðinni, heldur einmitt hin mesta auðlegðar uppspretta. Sá er sannarlega meiri maður, sem kann tvö tungumál en eitt og leggur rækt við bæði.

Og mér hrýs hugur við því, ef afkomendur okkar eiga fyrir hendi að komast í hóp og andlegt bandalag við þann hluta hérlendrar þjóðar, sem óupplýstastur er og mestur eftirbátur. Þó mig taki sárt til lútersku kirkjunnar, vil eg miklu fremur óska, að þeir gangi í andlegt og kirkjulegt bandalag við upplýstasta og lengst komna lýð þessa lands, bæði í kirkjulegum og andlegum efnum, ef það liggur fyrir þeim að hætta að nota íslenzka tungu og afklæðast sérstöku þjóðerni. Og eg geri mér í hugarlund, að margir þeirra að minsta kosti muni hugsa eins og breyta eftir því.

En til hins eru reflarnir skornir!

19.

Til þess hefir öllum árunum verið róið að koma Íslendingum inn í General Council. Til þess það tækist sem bezt hafa tengslin við móðurkirkjuna á Íslandi, — tengslin við alla þjóð vora í rauninni verið slitin hvert á fætur öðru. Samvinnan af hálfu kirkjufélagsins við kirkjuna á Íslandi hefir í raun og veru ávalt verið yfirskin eitt. Sjálfsþótti og yfirlæti gagnvart ættjörðu vorri hafa verið ein lang-stærstu lýtin á lífi Vestur-Íslendinga. En í því hefir kirkjufélagið ekki verið neinn eftirbátur eins og allir munu kannast við. Það hefir endalaust talað um sjálft sig eins og stórveldi á borð við Ísland að minsta kosti. Forsetinn virðist skoða sig sem annan íslenzkan biskup, jafnhliða þeim í Reykjavík. Til þess að gera sér afstöðu þessara stórvelda ljósa, er gott að minnast þess, að á Íslandi eru nálægt 150 prestar og guðfræðingar í embættum og að landinu er skift niður í 20 prófastsdæmi. Stórveldið vestur-íslenzka er þá á borð við eitt af 20 prófastsdæmum Íslands. Allir þessir tuttugu vita, að yfir engan líður, þó prófastur sé á ferðinni, og ætlast heldur ekki til þess.

Þegar tekið var að vinna að biblíuþýðingunni nýju, var þegar farið að tala um, að vestan hafs ætti að vera nefnd til að vinna að biblíuþýðingunni, jafnhliða nefndinni á Íslandi. Vitaskuld var hér enginn, sem var því starfi

vaxinn, því til þeirra hluta er ekki að tala um aðra menn en þá, sem hafa gefið sig við vísindalegri guðfræði alla æfi. En Bandaríkin höfðu sérstaka nefnd, þegar er enska þýðingin var endurskoðuð. Og af því kirkjufélagið skoðaði sig hlutfallslega álíka stórveldi, komst það svo langt, að nefndin var skipuð. Sá, sem vinna átti aðalstarfið, var piltur rétt kominn úr skóla. Hann sat í þessu um tíma og nefndin sendi til Íslands heilmikla syrpu speki sinnar.

Á nokkurum fundum nefndarinnar heima var eitthvað af þessu lesið. En ekkert einasta atriði var tekið til greina, því mest af því var tólfkónga vit eitt. En svo var öllu stungið undir stól, til þess að þetta, sem ekkert var á að græða, tefði ekki lengur fyrir nefndinni.

Svo fór um sjóferð þá!

Þetta hefði kirkjufélagsprestarnir átt að vita fyrir fram, en stórmenskan huldi þeim sýn. Biblíuþýðingarstarfið, eins og það er unnið nú á dögum, er vandasamara verk en svo, að í megi hlaupa af hverjum sem er. Það er ekki nóg að kunna það í grísku, sem kent er í skólunum. Sá sem ætlar sér að leysa það starf viðunanlega af hendi, verður að þekkja nákvæmlega alt hið sögulega bakhjarl nýja testamentisins og hafa kynt sér nákvæmlega hugmyndaheim Gyðinga og hugmyndaheiminn gríska eins og hann var þá. Og til þess að þýða nýja testamentið á íslenzku, þarf hina nákvæmustu og fullkomnustu þekkingu á ís-

lenzkri tungu, sem til er að dreifa. Hana hafa ekki aðrir en þeir, er lifa með þjóð vorri, og lifa með íslenzkuna á vörum sér, eins og hún er töluð á Íslandi, en ekki í Ameríku.

En er þetta brást, var farið í brezka og erlenda biblíufélagið, og leitast var við að fá það til að skerast í leik, af því að það studdi þýðinguna með nokkuru fé. Það vanst á, að í vasaútgáfunni af biblíunni var drottinn sett í stað *Jahve* í gamlatestamentinu, á sama hátt og Gyðingar gerðu, sem höfðu þá hjátrú að nafn guðdómsins væri of-heilagt til þess að fara syndugum mönnum um varir. Og að í orðinu alkunna hjá Jesaja stendur þar: Sjá, yngismær verður þunguð, þó að í stærri útgáfunni standi: *Ung kona* verður þunguð, sem hvorttveggja er vitaskuld hið sama og kemur alveg í sama stað niður, því hið fyrra má segja og til sanns vegar færa um hverja konu, sem í fyrsta sinni á von á að verða móðir.

Sakir þessara tveggja öldungis óverulegu breytinga, er nú vasa-útgáfan ein álitin nógu hrein handa rétt-trúuðum kirkjufélagsmönnum, en hin stærri útgáfan óhæf.

Þegar nú forsetinn er að bera sig upp um samvinnubrestinn og hve sárt þeir hafi verið leiknir í þessu biblíuþýðingarstarfi, virðist hann enn þá ekkert hugboð hafa um, að það tókst svona hrapallega einungis vegna þess að samvinnan var þeim ofurefli. Þá brast skilyrðin, sem þeir menn þurfa að hafa, er slíku verki eiga að vera vaxnir. Það er ekki Íslandi

að kenna að nú er "ekki hægt að segja, að báðir flokkar hafi sömu biblíu". Segir forsetinn, að það sé "ömurlegt", og er það eitt hið sannasta orð, sem honum hefir lengi ratað af munni.

Hverjum er um að kenna?

Dæmafárri sérvizku og feikilegu þröngsýni kirkjufélagsins er þar einu um að kenna.

En forsetinn er enn á ferðinni með samvinnu-tilboð. Hann gefur þeim þar á ættjörðu vorri kost á og leyfi til að leggja fram gjafir í skólasjóð kirkjufélagsins. Það eru meira en lítið góð boð og engin smávegis hlunnindi. Og hér eru sömu samvinnuboðin á ferðum til andstæðinga kirkjufélagsins. En munið eftir því, að þegar þau eru á ferðinni, er það guðfræði kirkjufélagsins, sem þið eruð beðnir að styðja. Forsetinn hefir sagt það sjálfur, að hún sé hjartað í skólanum.[1]

## 20.

Sama er að segja um sálmabókina. Í trúarlegu tilliti bindur ekkert þjóð vora eins saman og sálmarnir, sem hún syngur. En það sameiningarband þoldi kirkjufélagið eigi með neinu móti, og verður þó að viðurkenna, að í sálmabókinni á þjóð vor einn fegursta bókmenta-gimstein sinn, — sálmabók, sem heita

1) Sbr. Sam. feb. 1916. bls. 363.

má að þoli samanburð við beztu sálmabækur mótmælenda.

En hún var ekki nógu góð handa kirkjufélaginu nema fáeinir sálmar, svo sem þriðjungur, sem notandi voru að eins með því móti, að heilu sálmverki frá 17. öld væri bætt inn í bókina, ásamt nokkurum enskum sálmum, — á ensku vitaskuld, svo bókin er orðin bæði íslenzk og ensk. En þetta er fínn útreikningur. Nú fær enginn notað sína kirkjufélagssálmabók nema í kirkjufélagskirkju og neyðist því til þangað að fara nauðugur-viljugur.

Handbók presta var nýlega gefin út á Íslandi eftir langa og rækilega endurskoðan. Nú á þjóð vor eina hina fegurstu helgisiðabók, sem til er í lútersku kirkjunni. Í Danmörku var á hana bent sem fyrirmynd.

En kemur nokkurum til hugar, að hún muni vera nógu góð handa kirkjufélaginu? Síður en svo. Hún er ekki nærri nógu rétt-trúuð, ekki nærri nógu mikill 17. aldar blær á henni, til þess hún geti þóknast svo geysilega rétttrúuðu kirkjufélagi.

Við hverja helga athöfn er henni hafnað í kirkjufélaginu. Og í hvert sinn eru andlegu venzlaböndin, sem halda ætti öllum börnum þjóðar vorrar saman, — viðkvæmustu sálartengslin, sem hún á í eigu sinni, — slitin.

Til hvers er þetta gert?

Til þess að komast nær General Council, nær því mikla hnossi að fá þar inngöngu, og fá svo ef til vill doktors nafnbót frá Greenville

að launum! Aumingja landarnir! Skyldi þeir hafa átt það erindi til Ameríku að lenda í óupplýstasta og þröngsýnasta hópnum, sem til er í landi þessu?

21.

Í sambandi við hinn marg-ráðgerða og marg-umtalaða kirkjufélagsskóla eða akademí er þjóðernið haft að yfirskini. Það sést bezt nú, þegar á að fara að afnema íslenzkuna eða venja menn af henni með enskum guðsþjónustum.

Gamalmennahælið og skólinn er stöðugt notað sem auglýsingar fyrir kirkjufélagið og þá feiknastarfsemi, er það á að hafa með höndum. Hvorttveggja er notað til að breiða út og vernda veldi þess og gamallar guðfræði. Það er ekki lítið í munni, sízt í fjarlægð, þegar talað er um skólaráð og ákvarðanir *skólaráðs* Jóns Bjarnasonar skólans.

En fyrir skólahugmynd kirkjufélagsins er komið eins og tré, sem fúi er hlaupinn í tærnar á. Hún er að smávisna upp, þrátt fyrir alla fjársöfnun. Hugmynd síra Jóns heitins Bjarnasonar var sú, að koma upp fullfleygum almennum mentaskóla — *College* — og ekkert minna. Til slíks skóla hafa menn verið látnir gefa fé og lofa. Í þess stað virðist nú að eins farið að hugsa um undirbúningskenslu og jafnvel hún getur vitaskuld aldrei orðið annað

en kák. Allra-síðasta útgáfa skólahugmyndarinnar er nú það, að koma upp *heimilisskóla* svo nefndum[1] í grend við fylkisháskólann nýja, hve nær og hvar sem hann kann að verða reistur. Fæstir skilja víst við hvað er átt með þessum heimilis-skóla, en það er einmitt ráðið til að fá menn til að samþykkja eitthvað í blindni. Þeim, sem nokkuð hugsar, verður það þegar ljóst, að með heimilis-skóla er átt við það, sem á hérlendu skólamáli er nefnt *dormitory* — svefnhýsi á íslenzku. Nú er stefnan sú eins og hún er ákveðin og hátíðlega framsett af forsetanum í Sameiningunni, að því er skólahugmyndina marg-umræddu snertir, að koma upp slíku svefnhýsi eða næturvist handa íslenzkum nemendum við háskólann, sem þá um leið gæti orðið andlegar kirkjufélagskvíar, svo engum geti hepnast að hoppa út úr 17. aldar stíunni. Er þá gert ráð fyrir, að gömul íslenzka kunni að verða kend við háskólann á kostnað fylkisins og að tilstilli þess.

Með þetta er nú ætlast til að menn geri sig ánægða. Íslenzku þjóðerni yrði með því móti haldið við á ensku, — með álíka árangri vitaskuld og á sér stað við ríkisháskólana í Bandaríkjum, þar sem ofur-lítið bragð af fornnorrænu er gefið þeim, sem vilja.

*Þrátt fyrir óvild nokkurra ólánsamra manna, sem gremjuna yfir kirkjulegu skip-*

---

1) Sam., marz 1916, Skólamálið, bls. 6—7.

*broti sínu láta bitna á kirkjufélaginu, hefir þessi tilraun kirkjufélagsins fengið stuðning almennings.*[1] Frá sjónarmiði forsetans, sem nýlega hefir dregið þenna gyllinistaf í Sameiningunni af mikilli list, eru þeir allir ólánsamir kirkjulegir skipbrotsmenn, sem utan kirkjufélagsins standa.

Væri ekki óskaráð að halda þessu djásni til haga og hafa á reiðum höndum, til að gefa í skólasjóð næsta skifti, þegar komið er í kring til að safna?

"Gröfin því er vort svefnhús sætt
svo má ei granda reiðin hætt",

syngur Hallgrímur Pétursson. Skólahugmyndin er visnuð upp og orðin að svefnhýsi, og svefnhýsið að gröf íslenzkunnar og íslenzks þjóðernis. Þar ætla þeir að loka sig inni í 17. öldinni, svo að hugsanir nútímans komist ekki inn til þeirra, að minsta kosti á nóttunni. Og þar ætla þeir sér að vera óhultir fyrir réttlátri reiði forsjónarinnar fyrir að hafa ekki þekt vitjunartíma sinn og gert göfugustu hugsjónir aldarinnar húsrækar. Um leið og vér hættum að tala íslenzku erum vér Vestur-Íslendingar dotnir úr sögunni sem Íslendingar. Um leið og farið er að kenna íslenzku að eins á ensku, er hún dauð og dottin úr sögu hér vestan hafs.

Vér erum þá um leið horfnir eins og dropi í sjóinn!

Eru menn ánægðir yfir þessu?

---

1) Sam, marz 1916, bls. 4.

Gera þeir, sem lagt hafa og lofað stórfé í skólasjóð sig ánægða með þá ráðstöfun fjárins, sem nú er fyrirhuguð?

Gamalmennahælið er út af fyrir sig heiðarleg stofnan, sem ekkert er út á að setja, ekki sízt sökum þess að ávalt er ánægjulegt að verða þess var, að með einhverju vilji menn þó leitast við að bæta fyrir syndir sínar. En um gamalmennahælið er talað eins og væri það einhver fádæma stórkostleg stofnan, í stað þess að vera dálítill trékassi niðri á Gimli. En það er nokkur vorkunn. Það er lang-eðlilegasta stofnanin, sem kirkjufélagið hefir komið upp, — eins konar táknunarstofnan. Og nálægt henni má enginn prestur koma, nema afar-rétt-trúaðir kirkjufélags prestar. Það var sjálfsögð stofnan fyrir kirkjufélagið.

Gömul guðfræði er gamalmennahæli. Frá sjónarmiði hennar er öll veröldin gamalmennahæli. General Council er gamalmennahæli, sem nú er verið að koma Vestur-Íslendingum fyrir á. Það er engin furða þó tíðrætt sé um gamalmennahæli í kirkjufélaginu.

Tillagan um sameiginlegt hátíðahald með kirkjufélaginu og kirkjunni á Íslandi á væntanlegri júbílhátíð siðbótarinnar á komanda ári og ógnanin um, að alt sé búið, ef þeirri bendingu verður ekki tekið, — er hún ekki í sömu áttina?

Þar yrði stórveldin tvö hlið við hlið, biskuparnir báðir.

En ekki gæti þeir sungið á sömu sálmabókina!

Ekki lesið á sömu biblíuna!

Ekki notað sömu handbókina! Það er af og frá.

Yrði það ekki yndisleg júbílhátíð lútersku siðþótarinnar!

Eg ætla að síðustu að minna á sögu eina úr Talmud.

Þegar Adam í fyrsta sinni virti fyrir sér sólsetrið og sá skuggana og myrkrið færast yfir, varð hann gagntekinn af skelfingu. Og guð drottinn kendi í brjósti um hann og þrýsti honum til að leita að tveimur steinum, sem honum þá líka hepnaðist að finna. Þeir voru báðir svartir. Hét annar þeirra Skuggi dauðans, en hinn Myrkur. Og guð drottinn þrýsti Adam til að slá steinunum saman og þá kviknaði ljós. Þá sagði Adam:

Lofaður sé blessaður skapari ljóssins!

Mér er nú farið líkt og Adam, er hann virti fyrir sér sólsetrið. Eg sit eins og hann með tvo svarta steina, sem drottinn hefir þrýst mér til að finna og taka fram:

*Skugga dauðans* — sifjaslitin með Austur og Vestur-Íslendingum og banatilræðið við íslenzkuna — og *Myrkur* — gamla guðfræði, svefnhýsið og gamalmennahælið, sem verið er að reyna að koma okkur Vestur-Íslendingum fyrir á. Og það setur hroll að mér.

En drottinn þrýstir mér til að ljósta stein-

únum saman, til þess eg fái þó einhvern ljósneista að sjá, og mér verður aftur bjart fyrir augum. Í þeim ljósneista birtist framtíðar kirkjan mér með sameiginlega trú á himneskan föður og frelsara, en margar skoðanir. Eg er þess fullvís, að við erum öll, gamlir og nýir guðfræðingar, á leiðinni inn í hina sameinuðu kirkju framtíðarinnar og að við komumst þangað fyrir eitthvert kraftaverk, sem framtíðin ber í skauti sínu. Eg veit að blessaður ljóssins herra lætur ávalt verða ljós úr öllu myrkri. Eg trúi honum svo vel fyrir vorri ljóselsku þjóð beggja megin hafs, að eg veit, að hann lætur hana ekki lenda í myrkrinu.

Til þess að vara við myrkrinu, hefi eg talað þessi orð.

*Arnljótur B. Olson*



